# Lærdóms Bók

í

evangelisk-kristilegum

# Trúarbrögðum,

handa

# Unglíngum.

Selst óinnbundin á 24 ß. Silfurs.

Landsbókasafn

Videyar Klaustri, 1831.

Prentud á kostnad Íslands opinberu Landsuppfrædíngar Stiptunar, af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

# Advaran
til
# Kénnendanna.

1) Sérhver meiníng, hvert heldúr hún er í Lærdóms- edur Ritníngar-greinum, ellegar í athugasemdum og útskíríngum greinanna, á náqvamlega og skilmerkilega ad útþýdast fyrir barninu, ádur enn þad lærir nockud af þeim utanad.

2) Tornæmir, sem hverki hafa efni né tíma til ad læra meira, þurfa ecki nema ad vita vel sjálfar Lærdóms- og Ritníngar-greinirnar, sem þar standa prentadar hjá.

3) Kénnendurnir ega ad láta børnin leita ad þeim greinum í Bibliunni, sem til er vísad, en

þó ecki eru prentadar. Þar, sem mørg børn eru, ega þeir ad láta þau lesa þær til skiptis og med stuttum spurníngum útúr, koma þeim í skilníng um meiníngina.

4) Sérhver Lærdóms-grein í bókinni er svo skiljanlega samantekin og Atridis ordin ad-greind, ad hægt er hverjum einum ad spyrja útúr þeim; þessvegna gjørdist engin þørf ad prenta spurníngarnar, einkum þar raunin er ó-lýgnust, ad opt og tídum hafa bædi Kénnendur og Lærendur minna þenkt útí sannleikann vegna spurn-íngana.

Sá litli
# Lúthers Katekismus.

Þetta eru
## Tíu Laga-Boðorð Guðs.

### Fyrsta Boðorð.
Eg er Drottinn Guð þinn, þú skalt ecki hafa annarlega Guði fyrir mér.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum yfir alla hluti fram, Gud ad óttast, hann ad elska og á hann einn ad trúa.

### Annad Boðorð.
Þú skalt ecki leggja nafn Drottins Guds þins vid hégóma, þvi Drottinn mun ecki halda þann saklausann, sem brúkar hans nafn hégómlega.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum ad óttast og elska Gud. Engum egum vér ílls ad bidja í hans nafni, ecki sverja vid þad né fjolkíngi fremja, ecki ljúga né svíkja; heldur egum vér Guds nafn ad ákalla í ellum vorum naudsynjum, þad ad tilbidja, lofa þad og því þackir gjera.

## Þridja Bodord.

### Minnstú ad helga hvíldardagiñ Drottins Guds þíns.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum ad óttast og elska Gud. Ad vér ecki fyrirlítum prédikunina né hans ord; heldur egum vér þad heilagt ad halda, gjarnan heyra þad og læra.

## Fjórda Bodord.

### Heidra skaltú fodur þiñ og módur, svo þér vel vegni og þú verdir lánglífur á jordunni.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum ad óttast og elska Gud. Ad vér ecki fyrirlítum vora foreldra, né þá, sem yfir oss eru bodnir, ecki þá til reidi reitum; heldur þá í heidri hef-

um, þjónum þeim og hlýdnir séum, elsk-
um þá og vyrdíng veitum.

## Fimta Bodord.

### Þú skalt ecki mann deyda.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum ad óttast og elska
Gud. Ad vér ecki meidum hold vors ná-
únga, eda gjerum honum mein í nockru;
heldur egum vér honum ad bjarga og vid-
hjálpa í ellum hans lífs naudsynjum.

## Sjetta Bodord.

### Þú skalt ecki hórdóm drýgja.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum ad óttast og elska
Gud. Ad vér lifum hreinferdúglega bædi
í ordum og verkum, og ad hverr einn elski
og í heidri hafi sína ekta-persónu.

## Sjounda Bodord.

### Þú skalt ecki stela.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum ad óttast og elska
Gud. Ad vér ecki grípum góz eda pen-
ínga vors náúnga, eda med folskum kaup-
eyri eda undirhyggju undir oss dregum;

heldur egum vér honum ad hjálpa, svo hans góß og uppeldi ávaxtist og vardveitist.

## Áttunda Bodord.

### Þú skalt ecki bera falskann vitnisburd á móti þínum náúnga.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum ad óttast og elska Gud. Ad vér ecki ránglega ljúgum nockru á vorn náúnga, ecki svíkjum, baktølum eda ófrægjum hann í nockru; heldur egum vér hann ad afsaka, allt gott um hann ad tala og færa alla hluti til betra vegar.

## Níunda Bodord.

### Þú skalt ecki girnast hús náúnga þíns.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum ad óttast og elska Gud. Ad vér ecki med flærd stundum eptir arfi edur fasteign vors náúnga, edur undir oss drøgum med yfirvarpi laga og réttinda; heldur egum vér þar til ad hjálpa og styrkja, ad hann hafi sitt allt óskaddad.

# Tiunda Bodord.

Þú skalt ecki girnast qvinnu náúnga þíns, ecki þjón né þjónustuqvinnu, ecki uxa né asna og eckért það hans er.

Hvad er það?

Það er: vér egum að óttast og elska Gud. Að vér ecki burt-tælum eda lockum frá vorum náúnga hans egin-qvinnu, þjónustufólk eda qvikfé; heldur egum vér að áminna og rádleggja, að hverr og einn sé samt og ástundi að þjóna, það honum skyldugt er.

Hvad segir Gud um øll þessi Bodord?

Hann segir svo í 2 Mós. b. 20, 5. 6. Eg er Drottinn þinn Gud, eg er vandlátur Gud, sem læt straff fyrir fedranna ránglæti koma fram á børnunum í þridja og fjórda lid, það er að segja á þeim, sem mig hata; eg er líka sá, sem audsýni miskunsemi í þúsund lidu á þeim, sem mig elska og vid þá, sem vardveita mín bodord.

Hvad er það?

Það er: Gud hótar þeim øllum pínu, sem afvíkja þessum hans Bodordum; því

egum vér ad óttast og hrædast hans straff, og eckért ad gjera á móti hans Bodordum; en þeim ollum, sem þessi hans Bodord halda, lofar hann sinni nád, miskun og ollum gódum hlutum; þar fyrir egum vér Gud ad elska, trúa honum og treysta, og eptir hans Bodordum gjarnan ad gjora.

# Truar-játningin.

## FYRSTA GREIN.
### Um Skopunina.

Eg trúi á einn Gud, Fodur almáttugann, Skapara himins og jardar.

Hvad er þad?

Þad er: eg trúi ad Gud hafi skapad mig, ásamt ollum odrum skepnum, og ad hann hafi gésid mér ond og líkama, augu, eyru og alla limi, þar med skyn og skilníngar-vit, og ad hann ollu þessu enn þá vid makt heldur. Hér til veitir hann mér

og fyrirsjer nóglega, og daglega géfur hann mér klædi og skædi, mat og dryck, hús og heimili, fodur og módur, akur og qvikfé og allt þad, sem gott er, med ollu því eg medþarf til þessa lífs uppheldis. Hann verndar mig og vardveitir frá ollum skada og háska og ollum íllum hlutum. Allt þetta gott veitir hann mér af sinni einskjærri, fødurlegri, gudlegri gódgirnd og miskun, án allrar minnar verdskuldunar. Fyrir hvad allt eg á honum þackir ad gjøra, honum þjóna og hlýdinn ad vera. Þetta eru vissuleg sannindi!

---

## ONNUR GREIN.

### Um Endurlausnina.

Eg trúi á Jesúm Krist Son hans eingétinn Drottinn vorn, hverr ed gétinn var af heilogum Anda, fæddur af Maríu meyu, píndur undir Pontsío Pilató, krossfestur, deyddur og grafinn; nidurstéhann til helvítis, en á þridja

degi reis hann upp frá daudum, uppsté hann til himna, situr nú til Guds Fodurs almáttugs hægri handar, og þadan mun hann koma ad dæma lifendur og dauda.

Hvad er þad?

Pad er: eg trúi ad Jesús Kristur sé sannur Gud, af Fedurnum gétinn fyrir allar aldir, líka sannur madur, fædddur af Maríu meyu; ad hann sé minn Drottinn, sem mig glatadann og fyridæmdann mann hefir afrekad, endurleyst og frelsad frá ollum syndum, daudanum og djøfulsins valdi, ecki med gulli eda silfri, heldur med sínu heilaga, dýrmæta blódi og sinni saklausu pínu og dauda, svo ad eg sé hans eginleg eign, lifi undir hans valdi í hans ríki, honum þjóni í eilífu réttlæti, meinleysi og sáluhjálp, líka sem hann er sjálfur af daudanum upprisinn, lifir og ríkir ad eilífu. Petta eru vissuleg sannindi!

# ÞRIDIA GREIN.

## Um Helgunina.

Eg trúi á heilagañ Anda og ad sé ein, heilög, almeñileg, kristileg kirkja, sem er samneyti heilagra, fyrirgéfning syndaña, holdsins upprisa og — eptir þetta líf — eilíft líf.

Hvad er þad?

Þad er: eg trúi ad eg géti eki af sjálfs míns eginn krapti eda skilníngi trúad á Jesúm Krist minn Drottinn eda til hans komist; heldur hefir heilagur Andi mig, med gudspjallanna kéñíngu, kallad og upplýst med sínum ástgjöfum, helgad mig og vidhaldid í réttri trú; líka sem hañ alla adra kristna menn á jördu, kallar, samansafnar, upplýsir, helgar og í réttri trú á Jesúm Krist vardveitir; í hverri kristilegri kirkju hann nádarsamlega fyrirgéfur mér og öllum trúudum daglega allar syndir, og á efsta degi mun hann uppvekja mig og alla menn af dauda og géfa mér med öllum réttrúudum, fyrir Jesúm Krist, eilíft líf og sáluhjálp. **Þetta eru vissuleg sanníndi!**

# Drottinnleg Bæn.

Fadir vor! þú, sem ert á himnuim.

Hvad er þad?

Þad er: Gud vill hér med til-leida oss og lecka ad vér trúa skulum, ad hann sé vor réttilegur Fadir og vér hans sannarleg born, svo vér þess heldur med fullu trúnadar trausti megum hann bidja, eins og góð born bidja sinn elskulegann fodur.

## Fyrsta Bæn.

Helgist þitt nafn.

Hvad er þad?

Þad er: Guds nafn er sannarlega í sjálfu sér heilagt, þó vér bidjum ecki; en vér bidjum í þessari bæn, ad þad einnig helgist hér med oss.

Hvernig skédur þad?

Þegar Guds ord kénnist réttilega og hreinlega og vér eptir því lifum heilaglega, eins og Guds bernum hæfir; þar til hjálpi oss vor elskulegi Fadir á himn-

um! en hverr, sem ódruvísi kénnir eda lifir, enn Guds ord býdur, sá vanhelgar Guds nafn á medal vor; þar frá vardveiti oss vor elskulegi himneski Fadir!

## Önnur Bæn.

### Tilkomi þitt ríki.

Hvad er þad?

Þad er: Guds ríki kémur ad sönnu án vorrar bænar af sjálfu sér til; en vér bidjum í þessari bæn, ad þad einnig komi til vor.

Hvernig skéður þad?

Þegar Gud géfur oss sinn heilaga Anda, sá oss veitir þá náð, ad vér trúum hans heilaga ordi, lifum heilaglega, hér stundlega, en annars heims eilíflega.

## Þridja Bæn.

### Verdi þinn vilji, svo á jördu, sem á himni.

Hvad er þad?

Þad er: Guds gódur og nádugur vilji verdur á himnum, þó vér bidjum ecki; en vér bidjum í þessari bæn, ad hans vilji verdi hér á medal vor.

Hvernig skéður það?

Þegar Guð ónýtir og hindrar öll íll ráð og vondann vilja þeirra, sem því valda, að Guðs nafn vanhelgast og hans ríki náir ecki til vor að koma, sem eru: djöfullinn, heimurinn og vor holdlegur vilji; heldur styrkir hann oss og stöðuga gjörir í sínum orðum og í trúnni, allt til vorra æfiloka; þetta er hans miskunsamur og góður vilji.

## Fjórða Bæn.

### Géf oss í dag vort daglegt brauð.

Hvað er það?

Það er: Guð géfur að sönnu daglegt brauð, jafnvel vondum mönnum, þó vér biðjum ecki; en vér biðjum í þessari bæn, að hann láti oss vort daglegt brauð viðurkénna og með þacklæti til vor meðtaka.

Hvað kallast daglegt brauð?

Það kallast allt það, sem nauðsynlegt er til þessa lífs bjargar, sem er: matur og dryckur, klæði og skæði, hús og heimili, töður og engjar, qvikfénaður, góts og peníngar, góð ekta-persóna, hlýðin börn, dyggt þjónustu-fólk, trúir og frómir yfirmenn, góð almúgans stjórn, hagstæð veð-

uráttt, fridur, heilbrigdi, sidsemi, heidur, gódir vinir, trúfastir nágrannar og allt annad þessu líkt.

## Fimta Bæn.

### Fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum skuldunautum.

Hvad er þad?

Þad er: vér bidjum í þessari bæn, ad Fadir vor himneskur vilji ecki álíta vorar syndir, svo hann, fyri þeirra skuld, vilji ecki veita oss vora bæn — því vér erum allra þeirra hluta ómaklegir, sem vér hann umbidjum og hefum þad ecki verdskuldad — heldur ad hann vilji oss þad allt géfa af sinni eginlegu náð; því daglega syndgum vér og verdskuldum ecki annad enn straff; svo viljum vér og einnig þarámóti fyrirgéfa af hjarta þeim, sem oss á móti brjóta, og gjera þeim gott, sem vid oss misgjera.

## Sjötta Bæn.

### Eigi leid þú oss í freistni.

Hvad er þad?

Þad er: Gud freistar ad sönnu einkis manns; en vér bidjum í þessari bæn, ad

hann vilji vernda oss og varðveita frá andskotans, heimsins og holdsins vélum, svo vér hrepum ecki fyrir þeirra tilteygíngu í vantrú, örvæntingu edur adrar stór=syndir og lesti; og þó vér freistumst af öllu þessu, þá láti hann oss um sídir yfirvinna og sigrinum halda.

## Sjöunda Bæn.

### Heldur frelsa oss frá íllu.

Hvad er þad?

Þad er: hér bidjum vér alls í einu í þessari bæn, ad Fadir vor himneskur frelsi oss frá öllu íllu til lífs og sálar, farsældar og heidurs; en ad sídurstu, þegar vor daudastund er komin, géfi hann oss gódann afgáng og taki oss miskunsamlega til sín úr þessum eymdadal inn í himnaríki.

## Amen.

Hvad er þad?

Þad er: ad eg skal vera fullviss, ad þessar vorar bænir séu vorum himneska Födur þacknæmilegar og af honum heyrdar; því hann hefir sjálfur skipad, ad vér skyldum med þessum hætti bidja og hefir lofad ad hann vilji oss bænheyra. Amen!

Amen! Það er: já, sannarlega, það skal svo vera.

# Skírnar Sakramentið.

1. Hvað er Skírn?

Skírnin er ecki einsamalt vatn, heldur er hún það vatn, sem saman er reirt og bundið með Guðs boðorði og með Guðs orði samtengt.

2. Hvert er það Guðs orð?

Það vor Herra Jesús Kristur sagði hjá Matthæusi í 28da Kap.: Farið og gjörið allsslags þjóðir að mínum Lærisveinum og skírið þær til nafns Föðurs og Sonar og heilags Anda.

3. Hvað útvegar Skírnin oss og veitir?

Hún útvegar oss og veitir fyrirgéfníngu syndanna, frelsar oss frá dauðanum og djeflinum og géfur þeim öllum eilífa sáluhjálp, sem trúa því, er Guðs orð og fyrirheit losa.

4. Hver eru þau Guds ord og fyrirheit?

Þau vor Herra Jesús Krístur segir hjá Markúsi í 16da Kap.: Hverr, sem trúir og verdur skírdur, sá mun hólpinn verda, en hverr, sem ecki trúir, sá mun fordæmast.

5. Hvernig fær vatnid verkad svo veglega hluti?

Vatnid má aldrei slíks orka, heldur veitir þad Guds ord — hvert ad er í og med vatninu — og trúin, hver ad slíkum Guds ordum í vatninu trúir; því fyrir utan Guds ord er vatnid einsamalt vatn en engin Skírn; en þegar Guds ord samlágast vatninu, þá er þad Skírn. Þad er nádarfullt lífsins vatn og endurgétníngar laug í heilögum Anda, eins og Páll Postuli segir í Sendibréfinu til Títusar í 3ja Kap.

Eptir sinni miskunsemi hefir Gud oss hólpna gjört, med endurgétníngar lauginni og endurnýjúnginni, sem skédur af heilögum Anda, hverjum hann hefir nóglega úthellt yfir oss fyrir Jesúm Krist vorn Lausnara, svo vér, réttlættir fyrir hans nád, yrdum erfíngjar eilífs lífs eptir voninni. — Þessi ord eru sönn og trúanleg. —

6. Hvad merkir þvílík vatnsſkírn?

Hún merkir þad: ad ſá hinn gamli Adam í oſs, á daglega ad dreckjaſt og deydaſt fyrir ydrun og yfirbót, med ollum syndum og vondum girndum, og ſídan daglega framkoma og upp aptur ríſa nýr madur ſá, er liſa ſkal í réttlæti og heilagleika fyrir Gudi æfinlega.

7. Hvar ſtendur þad ſkrifad?

Páll Poſtuli ſegir í Sendibréfinu til Rómverja 6ta Kap.: Svo erum vér med Kriſti greftradir í ſkírninni til daudans, ad líka ſem Kriſtur er uppvakinn frá daudum fyrir dýrd Födurſins, ſvo egum vér ad gánga í nýu líferni.

# Altaris Sakramentid.

1. Hvad er Sakrament Altariſins?

Altaris Sakramentid er ſannarlegt hold og blód Drottins vors Jeſú Kriſts, undir braudi og víni,

af sjálfum Jesú Kristi innsett, oss kristnum mönnum að eta og drecka.

2. Hvar stendur það skrifað?

Svo skrifa þeir heilögu Guðspjallamenn, **Matthæús**, **Markús**, **Lúkas** og Postulinn **Páll**:

Vor Herra **Jesús Kristur**, á þeirri nóttu, sem hann svikinn var, tók hann brauðið, gjörði þackir og braut það og gaf sínum Lærisveinum og sagði: takið og etið, það er minn líkami, sem fyrir yður verður géfinn. Gjörið það í mína minningu!

Sömuleiðis eptir Qvöldmáltíðina, tók hann kaleikinn, gjörði þackir, gaf þeim hann og sagði: dreckið allir hér af, þetta er kaleikur ens nýa Testamentis í mínu blóði, sem fyrir yður úthellist til fyrirgéfn-

íngar syndanna. Gjörid þetta, svo opt, sem þér þad dreckid, í mína minníngu!

3. Hvad stodar oss med þvílíkum hætti ad eta og drecka hér af?

Þad sýna mér þau ord, sem hér standa: fyrir ydur gefst og úthellist til fyrirgéfníngar syndanna; því oss veitist fyrir þessi ord, í Sakramentinu syndanna fyrirgéfníng, eilíft líf og sáluhjálp, því hvar syndanna fyrirgéfníng er, þar er einnig lífid og sáluhjálpin.

4. Hvernig fær líkamleg bergíng verkad svo mikla hluti?

Bergíng brauds og víns verkar þad í engann máta, heldur ordin, sem hér standa: fyrir ydur gefst og úthellist til fyrirgéfníngar syndanna; hver ord ad eru hjá líkhamlegri bergíngu svo sem hefudstycki í þessu Sakramenti. Hverr, sem þessum ordum trúir, hann ødlast allt þad, er þau innihalda og uppá hljóda, sem er syndanna fyrirgéfníng.

5. Hverr

5. Hverr neytir þessa Sakramentis maklega?

Ad fasta og sig líkhamlega þar til ad búa, er ad sönnu góð ytri sidsemi; en sá er sannarlega maklegur og velskickadur, sem trúir þessum Krists ordum: fyrir ydur géfst og úthellist til fyrirgéfningar syndanna. En hverr, sem ecki trúir þessum ordum og efar þau, hann er ómaklegur; því þetta ordid: fyrir ydur, krefur fullkominnar trúar í hjartanu.

# Fyrsti Kapituli.
## Um Gud og hans Eginlegleika.

### I.) Hvernig vér fáum þeckíngu um Gud.

§. 1. Oss mønnunum ríður mjøg mikið á, að vér lærum að þeckja Gud; því annars gætum vér ecki skilið, hvernig heimurinn er orðinn til; vér vissum þá ecki heldur hvers vér mættum vænta um vora hagi eptir dauðann og hefðum enga óbrygðula hjálp að treiða oss uppá í vorum mótgángi.

Merk: Það eru kollud Trúarbrøgð, að þeckja Gud og hans vilja og með hverju móti vér egum að heiðra hann og hlýða honum.

§. 2. Undir nafninu Heimur, skilst almennilega bæði Himin og Jørd, með øllu því, sem í þeim er.

Merk: a) Auk Sólarinnar og Túnglsins sjáum vér á himninum mikinn fjølda af Stjørnum. Meðal þeirra eru nockrar, sem kallast Plánetur, allteins krínglóttir hnettir eins og vor jørd, og er ecki ólíklegt

ad í þeim búi margskonar lifandi sképnur, En þær eginlegu Stjørnur eru Sólir, eins og sú, sem skín nærst oss, og upplýsa med sama hætti hnetti þá, sem þeim eru nálægastir. Túnglid er hnottur eins og jørdin, sem fær, eins og hún, ljós sitt af sóluni.

b) Á Jørdunni teljast hér um tuttugu og fimm þúsundir lifandi sképna af ýmsu kyni, auk mannanna, sem eru tals þúsund Milliónir — en hver ein Millión er sama sem þúsundsinnum þúsund. Adrar lifandi sképnur, sem til adgreiníngar frá mønnunum kallast skynlausar og mállausar, skiptast í dýr, fugla, fiska, orma, skorqvikindi og þær sképnur, sem lifa bædi í vatni og á landi. Sérhvert af kynferdum þessum inniheldur margskonar tegundir, sem eru hver annari ólíkar.

§. 3. *a)* Hverr, sem vill gæta skynsemi sinnar, á hægt med ad þeckja, ad **Heimurinn** hefir ecki gétad ordid til af sjálfum sér, heldur enn hús nockurt eda Þorp hafi gétad byggt sig sjálft; því enginn sá hlutur er til, sem ecki hefir haft sína **orsøk**, af hverri hann er kominn.

*b)* **Heimurinn** hefir ecki gétad verid til frá eilífd; því vér sjáum, ad allir hlutir eru umbreytanlegir og bædi menn og sképnur ásamt ødrum fleiru, hafa **upphaf** og **endir**.

§. 4. Frá eilífð hlýtur að hafa verið ein æðsta Vera, sem skapað hefir heiminn, eða ráðið fyrir upptökum hans og niður-røðun. Þessi Vera kallast Guð, og þessi Guð hlýtur að vera sá allra vísasti; máttugasti og gæðskuríkasti, því þeim mørgu og marghátttuðu hlutum, sem eru í heiminum, er svo vísdómslega niðurraðað og allir eru þeir mjøg nytsamlegir.

§. 5. Guð þekkist ljósast af sínu orði, hvert lesa má í þeirri heilegu Ritníngu, sem kallast Biblía.

§. 6. Það er víst, að þann Guðs vilja, sem manneskjurnar áhrærir, er að finna í Biblíunni og þess vegna kallast hún Guðs orð, því hún kénnir oss fullkomlega og augljóslega allt það, sem syndug manneskja þarf að vita sér til endurbótar, huggunar og sannrar velferðar, bæði í þessu og tilkomanda lífi.

§. 7. Guð hefir sjálfur staðfest sitt orð með því, að hann hefir géfið þeim mønnum, sem það hafa ritað, bæði speki, til að auglýsa þá hluti, sem enginn maður gat vitað af sjálfum sér og líka

kraptatil að framqvæma þau verk, sem enginn hefði gétað gjört með neinslags náttúrlegum meðulum.

Merk: a) Í heilagri Ritníngu finnast þeir Spádómar, sem fyrisegja markverða tilburði, er engin manneskja gat á þeim tímum fyrirfram síeð, sem þó laungu þar eptir eru í ítrasta máta uppfylltir. Guð einn, sem er alvitur, gat veitt þessum heilögu mönnum þeckíngu um þvílíka atburði. Esa. 21, 1—10. 44, 21—28. Jer. 31, 31—40. 50, 1—46. Dan. 9, 20—27. Matth. 24, 1—28.

b) Í heilagri Ritníngu er talað um krapta-verk, sem eru þvílík yfirnáttúrleg verk, að þau útheimta guðdómlegann krapt, þar ecki var mögulegt að gjöra þau á þvílíkann hátt með náttúrunnar kroptum. Guð, sem er almáttugur, hefir einúngis brúkað þá heilögu menn til að gjöra þvílík dásemdar verk. 2 Mós. b. 14, 21—30. Matth. 8, 7—15. Jóh 2, 1—11. 6, 1—15. 9, 1—38. 11, 17—53. Post. G. b. 3, 2—8.

§. 8. *a*) Þeir menn, sem undir Guðs stjórnun og með hans aðstoð hafa skrifað þá heilögu Ritníngu, kallast, yfir höfuð að tala, Spámenn, Guðspjallamenn og Postular.

*b*) Spámennirnir, Guðspjallamennirnir og Postularnir, vóru

útvaldir af Gudi, til ad vera hans sendibodar medal manneskjanna, hverjum þeir áttu ad kunngjøra hans vilja og framqvæma hans ásetníng á þeim stad og tíma, sem hans speki áleit ad vera þénanlegast.

§. 9. *a*) Spámennirnir hafa skrifad þann hluta Ritníngarinnar, sem kallast gamla Testamentid, ádur enn Kristur fæddist.

*b*) Gamla Testamentid inniheldur ýmislegar bækur, í hverjum Guds vilji var auglýstur Gydíngum, þeirri þjód, sem Messías, heimsins Lausnari, átti ega ad reka kyn sitt til; en þessar bækur eru enn þá í mørgum greinum nytsamlegar handa oss og þénanlegar til lærdóms, huggunar og viðvørunar.

Merk: a) Bækur Gamla Testamentisins eru eptirfylgjandi: fimm bækur Mósis, Jósúæ bók, Dómara bókin, Ruths bók, fyrri og sídari Samúelisbók, fyrri og sídari Kongunganna bók, fyrri og sídari Kroniku bók, Esdra bók, Nehemiæ bók, Esters bók, Jobs bók, Davíds Psaltari, Salómons Ordsqvidir, Prédikarans bók og Lofqvædid. Fjórir stærri Spámennirnir: Esajas, Jeremías, med hans Harmagráti, Ezechiel og Daniel.

Tólf smærri Spámennirnir: Hóseas, Jóel, Amos, Obadías, Jónas, Micheas, Nahúm, Habachuk, Zephonías, Haggeus, Zacharías, Malachías.

b) Kristur hefir stadfest, ad bækur Gamla Testamentisins sén af Gudi, Lúk. 24. 25. 27. 44. og á Krists tídum vóru allar þessar bækur samansafnadar í Gamla Testamentinu, sem enn eru þar.

§. 10. *a*) Gudspjallamennirnir og Postularnir hafa skrifad þann hluta Ritníngarinnar, sem kallast Nýa Testamentid, eptir ad Kristur fæddist.

*b*) Nýa Testamentid inniheldur í ýmislegum bókum allt þad, sem Gud hefir viljad augljóst gjöra fyrir öllum heiminum, um syndaranna endurlausn vegna Krists, trúna, Guds ótta og dygdina, sem útheimtast til sáluhjálpar.

Merk: a) Nýa Testamentisins Bækur eru eptirfylgjandi: fiøgur Gudspjöll, nefnil: Matthæusar, Markúsar, Lúkasar og Jóhannesar; Postulanna Gjörnínga-bók; 14 Páls Sendibréf, sem eru: eitt til Rómverja, tvø til Korinthu-manna, eitt til Galata-manna, eitt til Ephesus-manna, eitt til Philippí-manna, eitt til Kólossu-manna, tvø til Thessaloníku-manna, tvø til Timótheusar, eitt til Títusar, eitt til Philemons, eitt til enna Hebresku; Jakobs Pistill, tvø

bréf Péturs, þrjú bréf Jóhannesar, Júdasar bréf og Jóhannesar Opinberunar bók.

b) Kristur hefir með sínum kraptaverkum sannað, að hann væri sendur af Gudi, og með sama hætti er trúverdugleiki Gudspjallamannanna og Postulanna stadfestur, Jóh. 10, 37. 38. 14, 10. 11. Post. G. b. 3, 1—16. Skrifenna ellstu kristinna Lærifedra innihalda þá vitnisburdi, sem gjora augljóst, að Gudspjallamennirnir og Postularnir hafi skrifað þær nýa Testamentisins bækur, sem þeim eru eignadar.

§. 11. Eptir sérlegasta inntakinu skiptist Guds orð í Løgmálid og Evangelíum.

a) Í Løgmálinu sýnir Gud oss það illa, sem vér egum að fordast, og það góða, sem vér egum að ástunda, það leidir oss einnig fyrir sjónir, straff fyrir hið illa til vidvörunar, og umbun fyrir hið góða til upperfunar.

b) Evangelíum inniheldur Guds loforð um syndanna fyrirgéfníngu og sáluhjálp vegna Jesú Krists, hverr eð endurleysti heiminn með sinni pínu og dauða; auk þessa kénnir það oss, eptir hverri reð og reglu, og með hverju móti vér gétum ordid hluttakandi í fyrirgéfníngu

syndanna og þeirri sáluhjálp, sem Kristur hefir oss útvegað.

Merk: Í fyrsta parti frædanna er talad um Løgmálid, sem inniheldur Guds tíu Bodord; en Evangelíum er í fjórum sídari pørtunum, sem iñihalda þrjár greinir trúariñar, sjø bænir í Fadir vor, ásamt med Skírnar og Altaris Sakramentum.

---

## II). Hvad Ritníngin kénnir oss um Gud, yfir høfud ad tala.

§. 1. **Heimsins Skapari er sá einasti sañi Gud og enginn nema hañ.**

Esa. 45, 18: Svo sagdi Drottinn, sá ed himininn hefir skapad, sá Gud, sem jørdina hefir tilbúid: eg em Drottinn og enginn annar Gud er til nema eg.

1 Cor. 8, 4. Vér vitum, ad skurdgod heidíngjanna eru ecként, og enginn annar Gud er til, nema sá eini.

Merk: a) Heidíngjarnir dýrkudu marga hjáguði og leitudu stundum til eins, stundum til annars, en gátu samt ecki vitad, til hvers af þeim þeir helzt skyldu snúa sér med vissustu von um hjálp og adstod.

b) Vér høfum orsøk til ad álíta sjálfa oss lángtum sælli, þar vér þeckjum sannann Gud og vitum hann er einn einasti: þar fyrir leitum vér hælis hjá honum ein-

um, og setjum vort traust og athvarf til hans í öllum vorum naudsýnjum.

§. 2. Ritningin kénnir oss ad þeckja þann einasta sanna Gud, sem Födur, Son og heilagann Anda og tileinkár bædi Födur, Syni og heilögum Anda þá einu og sömu guddómlegu veru, í hverri þeir eru óadgreinanlega sameinadir hverr med ödrum, med hætti, sem vér ecki sáum skilid.

Matth. 28, 19, Jesús býdur sínum Lærisveinum: Farid og gjörid allar þjódir ad mínum Lærisveinum og skírid þær til nafns Födursins, Sonarins og þess heilaga Anda.

Jóh. 15, 26. Jesús, svo sem eingétinn Sonur Födursins, segir: En þá er sá Huggarinn kémur, hvern eg mun senda ydur frá Födurnum, sá sannleiksins Andi, sem af Födurnum framgengur, hann mun vitna um mig. 2 Cor. 13, 13.

Merk: Pad er ordid ad venju medal kristinna manna, ad kalla Gud þrennann edur þríeinann, til ad sýna þar med, ad Fadir, Sonur og heilagur Andi hafi einn og sama allrahærsta Guddóm sameginlega hverr med ödrum, Jóh. 10, 30. 16, 15. Matth. 3, 16. 17, Jóh. 14, 16.

§. 3. Fadir, Sonur og heilagur Andi eru jafnt hlut-takandi í þeirri somu eilífd, mætti, gædsku og speki, þeir hafa eina og somu samseginlega dýrd.

Jóh. 5, 19—22. Jesús segir; Hvad helzt Fadirinn gjørir, þad sama gjørir Sonurinn eins; því svo sem Fadirinn uppvekur dauda og gjørir lifandi, svo lífgar og Sonurinn allteins hverja, sem hann vill, svo ad allir skuli heidra Soninn, eins og þeir heidra Fødurinn. Líka svo játar sjálfur Jesús, Jóh. 17, 5: ad hann hafi verid í dýrd hjá Fødurnum, ádur enn heimurinn var til, Jóh. 1, 1—3. 14. Róm. 9, 5. Hebr. 1, 3.

1 Cor. 2, 10. 11. Postulinn Páll segir um heilagann Anda: Gud hefir látid sinn Anda opinbera oss sín vísdómsfullu rád, því Andinn rannsakar allá hluti og jafnvel Guds leynda rád; en hver manneskjanna er sú, er viti hvad í manninum er, nema mannsins andi, sem í honum er? svo líka veit enginn hvad í Gudi er, nema Guds Andi. Med líkum hætti sýnir og Postulinn, ad þad hafi verid sá heilagi Andi, sem útdeildi yfirnáttúrlegum nádargáfum í hinni fyrstu kristni, hvar á medal hann einnig telur makt til ad gjøra kraptaverk og sídan segir hann, 1 Cor. 12, 4—

11: En allt þetta verkar kroptuglega sá eini og sami Andi, er útskiptir sérhverjum útaf fyri sig eptir því, sem hann vill, Post. Gb. 5, 3. 4. 1 Cor. 3, 16.

Merk: a) Þad er sannarleg og mikilvæg huggan fyrir oss, ad vér vitum ad Sonurinn Jesús Kristur, sem hefir kénnt oss hverju vér eigum ad trúa, og endurleyst oss med sinni pínu og dauda, er sannur Gud ásamt med Födurnum, því vegna þess kunnum vér, med fullri sannfæringu, ad reida oss uppá hann og fylgja honum í ollu med stadfostu trúnadartrausti, líka og án efablendni tilbidja hann.

b) Oss er þad mikilsverdt, ad vér vitum, ad sá heilagi Andi, sem med Guds ordi verkar til vorrar upplýsíngar og endurbótar, er sannur Gud ásamt med Födurnum og Syninum; því þess vegna erum vér nú fullvissir um, ad vor betran er moguleg, ef vér færum oss Guds ord réttilega til nota, og engin vantrú eda efasemi gétur haldid oss frá, ad tilbidja heilagann Anda, med sama trúnadartrausti, sem Födurinn og Soninn.

### III.) Hvad Ritníngin kénnir oss um Guds veru og eginlegleika.

§. 1. Gud er Andi, edur ósýnileg Vera, sem hefir ad sonnu frjálsrædi og skynsemi, en engann líkama edur limu, þess vegna getum vér ecki sied hann med líkhamlegum augum, ecki heldur útmálad hann med neinni mind.

Jóh. 4, 24. Gud er Andi, því ega þeir, sem tilbidja hann, ad gjøra þad med réttum anda, 1 Tím. 1, 17.

Merk: Gud dýrkast og vegsamast best med hreinum þaunkum og rádvøndum lifnadi, því þesskonar dýrkan á best vid þann Gud, sem er Andi.

§. 2. Gud er eilífur og hefir hverki upphaf né endir; hann er ætíd óumbreytanlegur og verdur jafnan hinn sami.

Ps. 90, 2. Adur enn fjøllin vóru til og þú tilbjóst jørdina, ertú Gud og þad frá eilífd til eilífdar. Ps. 102, 27. 28.

Jak. 1, 17. Hjá Fødur ljósanna er engin umbreyting né umbreytingar skuggi.

Merk: Gud, sem er eilífur, óumbreytanlegur, gétur þess vegna gjørt þá eilífliega

sæla, sem elska hann og hlýða honum. Hans makt þar til rénar aldrei, ecki heldur umbreytir hann sínum ásetníngi og loforðum.

§. 3. Guð er **almáttugur** og gétur gjört allt hvað hann vill, án ómaks eður fyrirhafnar, en hann gjörir eckért annað enn það, sem er vísdómsfullt og gott, því hann vill eckért nema það einúngis.

Ps. 115, 3. Vor Guð er í himninum, hann gjörir allt hvað honum gott þykir. Psálm. 135, 6.

Jer. 32; 17—19. O Drottinn! Drottinn! sjá, þú gjörðir himin og jörð með þínum mikla krapti! enginn hlutur misteckst fyrir þér; þú, hinn mikli og voldugi Guð! mikill í ráðum og mektugur í athøfnum.

> Merk: Vér megum óhultir treysta á hjálp og verndun þess almáttuga Guðs, í øllum vorum réttilegum athøfnum; því hann vantar hvorki veldi né krapta til að vernda oss. En hann er líka máttugur til að straffa þá að maklegleikum, sem eru honum óhlýðnir.

§. 4 Guð er **alvís** og veit allt í einu bæði það, sem skéð hefir, það, sem nú skéður og það, sem á allri ókominni tíð mun ské. Vorir heimugleguſtu þánkar eru ecki huldir fyrir honum.

1 Jóh. 3, 20. Gud þeckir' alla'] hluti.

Ps. 139, 1—3. Drottinn! þú ransakar og þeckir mig; þú skynjar mínar hugrenníngar álengdar; þú sjer gjørla allar mínar athafnir.

Merk: Það væri mesta heimska, að ætla sér að hræsna fyrir Gudi, sem veit allt og verdur ecki á tálar dreginn med útvortis yfirhylmíngu. Hann veit, hvert heldur er, hvað illt eda gott vér hugsum, tølum eda gjørum, jafnvel þó engin manneskja verdi nockurntíma áskynja þar um.

§. 5. Gud er alvitur, og hefir ætíð þann besta tilgáng í sínum ásetníngi, og líka velur jafnan bestu medøl til ad koma honum fram.

Ps. 104, 24. Drottinn! hversu mørg eru þín verk! þú gjørdir þau øll med vísdómi, Job. 12, 13.

Merk: Vér megum óhult trúa því, ad hinn alvitri Gud gjörir eckért, án þess það sé nytsamlegt, og ad allt hvad fram vid oss kémur, eptir hans vilja, horfir oss til gagns og góda.

§. 6. Gud er allstadar nálægur og verkar med sínum krapti allstadar í øllum hlutum. Hann er hvergi fjarlægur sínum skepnum.

Ps. 139, 7. 8. Hvert skal eg fara frá þínum Anda, Drottinn! hvert gét eg flúið, svo þú sjáir mig ecki? þó eg færi upp í himininn, þá ertú þar, og þó eg býggi mér legurúm í undirdjúpinu, þá ertú einninn þar, Jer. 23, 24.

Merk: Hinn gudhræddi má vera med gódu gédi í øllum sínum mótgángi, því Drottinn yfirgéfur hann aldrei, heldur vardveitir hann. En sá ógudhræddi hefir orsøk til ad skélfast, jafnvel í leyniligustu fylsnum, því hann gétur hvergi umflúið Drottinn, sinn dómara.

§. 7. Gud er gódur og audsýnir sínum skepudu sképnum svo margar velgjørdir, sem hver þeirra gétur í móti tekid, eptir þeirra edli, líferni máta, edur útvortis ásigkomulagi.

Ps. 145, 9. Drottinn er øllum gódur og hann miskunar sig yfir øll sín verk.

Post. Gb. 14, 17. Gud hefir ecki látid sjálfann sig vera án vitnisburdar, þar hann veitti oss mikid gott, gaf oss døgg af himni og frjósamar árstídir.

Merk: Oss byrjar med sannarlegu þacklæti, ad vidurkénna eins þær smærri, sem hinar stærri Guds gáfur, og aldrei qvída fyrir,

hann muni sýnja oss þess, sem hann sjer að oss er þénanlegt.

§. 8. Guð er miskunsamur og fús til að veita oss hugsvölun í vorum hörmúngum, og frelsa oss frá þeim á þeirri tíð og með þeim hætti, sem hann sjer oss haggvæmast, allt eptir því, sem vor velferð útkrefur.

Ps. 103, 13. Eins og faðirinn er børnunum líknsamur, eins er Drottinn miskunsamur þeim, er hann óttast, 2 Cor. 1, 3.

Merk: Í øllum vorum mótgángi megum vér með von og trausti leita hælis hjá miskunsömum Guði, og hverki reiða oss uppá vorn eiginn vísdóm né mannanna aðstoð, sem opt kann að bregðast.

§. 9. Guð er heilagur, sem ætíð elskar það góða, en hefir stærstu misþóknun á øllu því, sem íllt er.

Ps. 5, 5. Drottinn! þú ert ecki sá Guð, hverjum ógudlegt athæfi líkar, hverr, sem er vondur, fær ecki að vera hjá þér.

1 Pét. 1, 15. Eins og sá er heilagur, sem yður hefir kallað, svo verið þér og einnig heilagir í øllu yðar dagfari.

Merk: Vér egum með varkárni að forðast allt, sem íllt er, því það er Guði á móti.

En vér egum ad ástunda saunann Guds ótta, ef vér viljum ad honum líki vid oss og hann sé oss jafnan nádugur.

§. 10. Gud er réttlátur og gengur ríkt eptir, ad lifad sé eptir hans bodordum, hver ad ellu leiti horfa til vorrar nytsemdar. Þess vegna vill hann umbúna einúngis þeim, sem hlýda honum, en straffa þá, sem honum eru óhlýdnir.

2 Mós. b. 20, 5. 6. Eg er Drottinn þinn Gud, eg er vandlátur Gud, sem læt straff fyrir fedranna ránglæti koma fram á børnunum í þridja og fjórda lid — þad er ad segja — á þeim, sem mig hata. Eg er líka sá, sem audsýni miskunsemi í þúsund lidu á þeim, sem mig elska og vid þá, sem vardveita mín bodord.

Róm. 2, 9. Gud mun gjalda einum og sérhverjum eptir hans verkum.

Merk: a) Þad er mikil heimska, ad hugsa Gud muni sjá í gégnum fíngur vid oss, hversu lengi, sem vér áfram høldum í syndunum, því hans réttlæti útheimtir, ad hann straffi þad vonda ødrum til skélfíngar og vidvørunar, svo ad manneskjurnar leidist ecki til lasta og ódygda af vondra eptirdæmum.

b) Med því Gudi sýnist ecki þénanlegt, ad

straffa ætíð eður launa, eptir sérhvers verðugleikum í þessu lífi, þá dregur hann opt hvørttveggja undan til þess í øðru lífi. hvar bæði sá ógudlegi, og líka hinn guðhræddi úttaka, hverr uppá sinn máta, sín verkalaun.

§. 11. Guð er sannorður og dregur oss aldrei á tálar með neinu falsi; hann er trúr, og heitir hverki né lofar eðru enn því, er hann bæði kann og vill efna.

4 Mós. b. 23, 19. Guð er ecki eins og manneskjan, ad hann ljúgi, ecki heldur eins og mannesskjunnar barn, ad hann sjái sig um hønd.

Ps. 33, 4. Drottins orð er sannarlegt, og hverju, sem hann lofar, það efnir hann vissulega.

Merk: Oss er það nóg til trúar-styrkingar, að vér vitum hvað Guð hefir látið oss kunngjøra í sínu orði, og það egum vér að halda fyrir satt, án nockrar efasemi.

# Annar Kapituli.
## Um Guds Verk.

### 1.) Hvad Ritníngin kénnir um Sköpunina og skapada hluti.

§. 1. Gud hefir í upphafi skapad himin og jord af engu, alleina med sínu almætti, til gagns og gledi handa øllum sínum lifandi sképnum.

1 Mós. b. 1, 1. Í øndverdu skapadi Gud himin og jørd, Ps. 115, 15. Es. 40, 26.

Ps. 33, 9. Hann taladi, þá skédi þad; hann baud, þá stód þad þar.

Merk: Gud hefir med sköpuninni svo dásamlega opinberad sitt almætti, speki og gædsku, ad sérhverr, sem med alvarlegu athygli géfur gætur ad heiminum, hlýtur þar af ad upporfast til ad heidra og vegsama Gud og þacka honum.

§. 2. Þegar Gud hafdi á sex degum lokid sköpunarverkinu, og gjørt jørdina byggilega handa øllum lifandi sképnum, hvíldist hann edur hætti ad skapa á hinum sjøunda deginum.

2 Mós. b. 20, 11. Á sex døgum gjørdi Gud himin og jørd og hafid og allt, sem í þeim er, en hvíldist á hinum sjøunda degi, Ps. 104.

**Merk**: Sjøundi dagurinn, sem er sá sídasti í vikunni, var ad Guds bodi heilagur haldinn hjá Gydíngum, til þakklætisminníngar um heimsins skøpun; þar á mót egum vér, kristnir menn, ad halda heilagann fyrsta daginn í vikunni, til þakklátrar endurminníngar um Jesú Krists upprisu.

§. 3. Á sjøtta degi vikunnar skapadi Gud hinn fyrsta karlmann, er hét Adam, af moldu og hina fyrstu konu, sem kalladist Eva, af mannsins sídu. Bædi þau samteingdi Gud í hjúskap til ad ad auka kyn þeirra, og ad hvert fyrir sig skyldi stunda annars velferd.

1 Mós. b. 1, 27. 28. Gud skapadi karlmann og qvennmann, blessadi þau og sagdi: aukist þid og margfaldist og uppfyllid jørdina.

Post. Gb. 17, 26. Drottinn hefir gjørt, ad allar mannanna kynkvíslir búa á øllum jardar hnettinum, af einum ættstofni.

**Merk**: Þad er vidurqvæmilegt ad allir vér, án alls greinarmunar, berum umhyggju

hvert fyrir ødrum og elskum hvert annann, eins og børn af sama foreldri þar vér allir játum, ad Adam og Eva hafi verid vorir fyrstu foreldrar.

§. 4. Medal hinna sýnilegu Guds sképna á jørdunni er madurinn hin ypparlegasta. Hann er gæddur med skynsemdarfullri sálu í hentugum líkama handa henni, hann er og svo settur af Gudi til ad ráda yfir øllum ødrum dýrum.

Préd. 12, 7. Moldin hlýtur ad hverfa til jardarinnar aptur, hvar hún ádur var, en andinn til Guds, sem gaf hann.

1 Mós. b. 1, 28. Gud sagdi til vorra fyrstu foreldra: Gjørid ydur jørdina undirgéfna og drottnid yfir fiskunum í sjónum og fuglunum í loptinu og yfir øllum dýrum, sem hræraft á jørdunni.

Merk: Manneskjurnar hafa þad mikla-framyfir dýrin, ad þær géta þenkt, talad og breytt eptir skynsamlegri umþenkíngu; en med þess meira athygli egum vér ad gjæta vor, svo vér ecki vanbrúkum þessa stóru yfirburdi, á móti Guds vilja, sjálfum oss og ødrum til skada.

§. 5. Líkami mannsins er svo haganlega tilbúinn, ad bædi

gétum vér unnid þad, sem nytsamlegt er med límanna **brúkun**, og líka **notid stórrar ánægju med skilníngarvitunum**, hver ad eru: **sjón**, **heyrn**, **ilman**, **smeckur** og **tilfinníng**.

1 Mós. b. 2, 15. Drottinn Gud setti Adam í aldingardinn Eden, til ad yrkja hann og vakta.

Ephes. 4, 28. Postulinn Páll útheimtir: ad vér skulum erfida og vinna oss inn eitthvad þarft, svo vér hofum nockud til ad géfa þeim, sem medþurfa.

Merk: a) Vér erum allir skapadir til ad erfida, því má enginn eyda sinni tíd í ydjuleysi.

b) Þegar vér njótum einnrar edur annarar ánægju med skilníngarvitunum, þá egum vér ætíd vandlega ad gjæta hófs í hverjum hlut, en fordast alla vanbrúkun, svo Guds gædska verdi oss ecki til fordjørfunar af sjálfskapa vítum.

§. 6. **Sálin** er sá **mannsins partur**, sem **þenkir** og **ályktar**. Hún er **ódaudlegur andi**, gædd med **skynsemi** til ad þeckja hvad rétt er eda rángt og med **frjálsrædi** til ad velja hvert heldur gott eda íllt.

Matth. 10, 28. Jesús sagdi: Hrædist ecki þá, sem líkamann deyda, en géta ecki líflátid sálina.

**Merk:** Þar ed sálin er ædri partur manneskjunnar, egum vér kappkosta, ad láta oss framfara í nytsamlegri þeckíngu og lærdómi og ætíd girnast þid sanna góda, svo ad vér hæfilegir verdum til sannarlegrar farsældar, bædi í þessu lífi, og einkanlega í því tilkomanda.

§. 7. Allt hvad Gud skapadi var ysrid gott og í besta máta lagad til þess, sem þad var ætlad, en einkanlega var manneskjan, svo sem skilníngsfull vera, skepud eptir Guds egin mind.

1 Mós. b. 1, 31. Gud sá allt, sem hann hafdi gjørt og, sjá! þad var ysrid gott.

1 Mós. b. 1, 26. 27. Gud sagdi: Vér viljum gjøra manninn eptir vorri mind og líkíngu, þá skapadi hann manneskjuna eptir Guds mind; hann skapadi þau karlmann og konu.

**Merk:** Eckért af því vonda, er finnst í heiminum, gétur tilreiknast Gudi, sem ecki var orsök til þess Skuldin verdur einúngis hjá manneskjunni, sem lecki gjætti síns medfædda sakleysis.

§. 8. Þær fyrstu manneskjur líktust Gudi í nockru, og í því tilliti er sagt þær hafi verid skapadar eptir Guds mind. Parí vóru þær honum líkar, ad þær hefdu þeckingarfullann skilníng á ellu, sem þær medþurftu til ad byrja farsællegt líf, líka hefdu þær í viljanum lyst og laungun til hins góda, án þess ad freistast af nockri tilhneigíngu til ílls.

Préd. 7, 29. Salómon segir: Pad hefi eg fundid, ad þad, sem Gud hefir gjört manneskjunni, er rétt. Hér á líka vid þad, sem Postulinn Páll segir, Cól. 3, 10. Ad þeir trúudu hafi íklædst nýrri manneskju, sem endurnýast til þeckíngar eptir þess mind, sem hana hefir skapad, Eph. 4, 24.

Merk: Vér egum ad ástunda ad verda Gudi líkir ad nýu, keppast þess vegna daglega eptir ad láta oss fara fram í þeckíngu og rádvendni, svo vér verdum ad nýum og betri manneskjum.

§. 9. Auk manneskjunnar hefir Gud líka skapad adrar skynsemdarfullar Verur, sem hafa ædra edli og kallast Englar. Peir eru Andar, hafa því skynsemi og frjálsrædi, en jard-

neskar manneskjur géta ecki sjed þá án Guds sérdeilislegrar tilhlutunar, því þeir hafa engann jardneskann líkama.

Ps. 103, 20. 21. Lofid Drottinn, þér, hans Englar! þér, øblugar hetjur, sem framqvæmid hans bod! Lofid Drottinn, þér, hans þénarar, sem gjørid hans vilja!

§. 10. a) Nockrir af Englunum hafa sjálfkrafa fallid frá hlýdni sinni vid Gud, þeir kallast þessvegna vondir Englar og lída þad straff, sem íllska þeirra hafdi tilunnid.

2 Pét. 2, 4. Gud þyrmdi ecki Englunum, sem syndgudu, heldur steypti þeim nidur til helvítis og setti þá í myrkra-fjøtur, svo ad þeir geymist þar til dómsins, Matth. 25, 41. Jóh. 8, 44.

b) Hinir Englarnir hafa stadid stedugir í hlýdni sinni vid Gud og kallast því gódir Englar; þeir hafa yndi sitt af ad skoda Guds dýrd, lofa hann og ákalla og gjøra allt, sem hann skipar þeim.

Hebr. 1, 14. Eru Englarnir ecki þjónustusamir Andar, útsendir vegna þeirra, sem

ødlast skulu sáluhjálpina? Matth. 18, 10. 28, 2—7. Lúk. 1, 26—28. 2, 9—14.

Merk: Í þridju bæn af Fadir vor, verdum vér áminntir, ad giera þad, sem Gud vill, med sømu lyst og ástundun, eins og gódu Englarnir giera þad á himnum.

---

## II). Hvad Ritníngin kénnir oss um Guds forsjón og vidhald allra skapadra hluta.

§. 1. Gud vidheldur ellum skepudum hlutum med sínu almætti og lætur þá nidurrødun í náttúrunni halda sér, sem hann einusinni hefir tilsett, því annars mundi hún fara aflaga.

1 Mós. b. 8, 22. Medan jørdin er vid lýdi, skal hvørki linna sád né uppskéra, frost né hiti, sumar né vetur, dagur né nótt.

Ps. 104, 13. 14. Drottinn, minn Gud! þú vøkvar fjøllin hér ofanad og fyllir landid med ávøxtum, sem þú géfur; þú lætur grasid spreita handa fénadinum, og korn, mønnunum til nota, svo ad þú útleidir braudid úr jørdunni.

Merk: Vér megum ætíd reida oss uppá Gud, hvernunn sem ástatt er fyrir oss, því med sínu almætti, speki og gædsku

verndar hann jafnan heiminn; en vér megum heldur aldrei gleyma því, að vegsama hann og þacka honum.

§. 2. *a*) **Guð ber umhyggju fyrir öllum sínum skèpnum, smáum og stórum, veitir þeim öllum allt hvað þær viðþurfa til lífs-uppheldis, gætir þeirra og verndar þær.**

Ps. 145, 15. 16. Allra augu vona til þín, Drottinn! og þú gèfur þeim þeirra fæðu í hæfilegann tíma; þú upplýkur þinni hendi og seður allar lifandi skèpnur með þinni blessun.

*b*) **Sérílagi ber Guð umhyggju fyrir manneskjunum, er með skynseminni og hennar réttri brúkun gèta orðið njótandi lángtum meiri sælu enn skynlausu skèpnurnar.**

Matth. 6, 26—30. Jesús sagði: Gætið að fuglunum í loptinu, þeir sá hverki né uppskèra og ecki safna þeir í kornhlöður, samt fæðir yðar himneski Faðir þá; eruð þér ecki miklu ypparlegri enn þeir?—og þareð Guð skrýðir grasið á akrinum, sem stendur í dag, en á morgun verður kastað í ofn, mundi hann ecki

miklu fremur þad sama vid ydur gjøra? ó þér lítiltrúadir! Matth. 5, 45.

Merk: a) Vér megum ecki misbrúka skynlausar sképnur edur fara ílla med þær, því Gud, sem hefir skapad þær og nærir, vill ad þeim vegni vel eins og oss.

b) Vér egum ecki ad misbrúka Guds gáfur til óhófs, því hann hefir ecki géfid oss þær til annars, enn ad vér skyldum med þeim efla vort egid og annara sannarlegt gagn.

c) Þared Gud hefir géfid oss vora limi og krapta til þess vér skyldum brúka þá til nytsamlegrar vinnu, þá vill hann ecki med ødrum hætti bera umhyggju fyrir voru uppheldi, enn ad vér sjálfir séum jafnframt ydnir og atorkusamir, hverr í sínu rétta standi og embætti. 1 Mós. b. 3, 19. 2 Thess. 3, 11. 12.

d) Þad er sannarlegur velgjørníngur af Gudi, ad vér erum skyldugir ad erfida, því þar med styrkist heilsa líkamans, og sálin upphvørfast ad hugsa um þad, sem er gott og nytsamlegt í stad þess ad sækjast eptir syndsamlegri gledi.

§. 3. Gud, sem er heimsins Drottinn og Stjórnari, stýrir med speki og gædsku øllu því, sem vidber í heiminum, svo ad bædi gott og íllt fá þau endalok, sem honum þykja hagqvæmust.

Matth, 10, 29—31. Jesús sagdi: Seljast ecki tveir titlíngar fyrir einn smápeníng? samt fellur enginn af þeim til jardar án ydar Fødurs vilja—enn fremur— øll ydar høfudhár eru líka talin; óttist þessvegna ecki, þér erud meira verdir enn margir titlíngar.

1 Mós. b. 50, 20. Jóseph sagdi vid brædur sína: Þér ætludud ad gjøra mér íllt, en Gud ásetti ad snúa því til góds til ad gjøra það, sem nú er framkomid og halda mørgu fólki vid lífið.

**Merk:** a) Vér egum ad fela Gudi á hendur hvada árángur verdur af voru løglegu erfidi, þared eckért skédur án hans vilja eda tillátsemi.

b) Þegar Gud leyfir vondum mønnum ad gjøra skada, vegna þess hann vill ecki med makt svipta þá sjálfrædi þeirra, megum vér samt treysta því, ad hann í tækann tíma mun snúa því til góds, annadhvert til vorrar egin edur annara nytsemdar.

c) Jafnvel þó þad á stundum líti svo út, eins og hinum ógudlegu gángi allt ad óskum, en gudhræddir megi lída naudir og volædi, er Gud samt vísdómsfullur og réttlátur í sinni stjórnun, því hann veit best hvad nytsamlegt er, bædi hverjum út af fyrir sig, og líka øllum heiminum yfir høfud ad tala, en í hinu odru lífi mun hann vissulega straffa sérhvern og launa øllum, eptir sem hverr hefir tilunnid.

§. 4. Sérhverjum ber ad álíta þadstand, sem hann er í settur, eins og vissa kollun af Gudi, til ad gjöra þar svo mikid gagn, sem honum eptir fremsta megni, efnum og ásigkomulagi er mogulegt.

1 Sam. 2, 7. Drottinn er sá, sem gjörir fátækann og ríkann; hann er sá, sem niðurþryckir og upphefur.

1 Cor. 7, 20. Hverr einn standi stødugur í þeirri stétt, sem hann er tilkalladur.

Merk: Hverr, sem er ánægdur med sitt stand, sá ásakar Guds algódu forsjón, og sýnir í því mikla fávitsku.

§. 5. Hvad, sem oss mætir í þessu lífi, hvert þad er heldur sórg eda gledi, er oss af Gudi ætlad eptir besta tilgángi, svo vér høfum ætíd orsøk til ad vera ánægdir med hans stjórnun og umrád.

Hebr. 13, 5. 6. Látid ydur nægjast med þad, sem þér hafid, því sjálfur Drottinn hefir sagt: eg skal ecki svipta minni hendi af þér og engannveginn yfirgéfa þig, vér gétum því hughraustir sagt: Drottinn er minn hjálpari, eg skal ecki qvída.

Merk: Guds lögmál, sem er innifalid í þeim tíu bodordum, er ad sönnu einkanlega fyrirskrifad Gydíngum, en þad innheldur samt þau skylduverk, sem sérhver manneskja á ætíd ad géfa gætur ad, því þau þéna til ad efla bædi vort egid og annara sanna gagn. Róm. 3, 31. 13, 8. 9.

§. 3. Sá er **tilgángur** allra **Guds Bodorda**, eptir Krísts egin útleggíngu, ad **efla og stadfesta** hjá **manneskjunum framqvæmdarsama elsku til Guds**, sjálfra þeirra og náúngans.

Matth. 22, 37—40. Jesús sagdi: Þú átt ad elska Drottinn Gud þinn af öllu hjarta, allri þinni sálu og öllu þínu hugskori, þad er hid fyrsta og stærsta bodord; en hitt annad er þessu líkt: þú att ad elska náúnga þinn eins og sjálfann þig. Í þessum tveimur bodordum er innifalid allt lögmálid og Spámennirnir. Róm. 13, 10.

Merk: Þad er ecki nóg, ad vér einúngis eptir voru náttúrufari gjörum eitt eda annad gott, sem kann ad vera oss gédfeldt; ecki heldur er þad sannarlegt gódverk, þó vér gjörum gott einúngis til ad fá hrós hjá mönnum, edur af ótta fyrir straffi og saksóknum, ef þad væri ógjort látid. Oss byrjar í öllu, sem vér gjörum,

hafa þann tilgáng, ad audsýna kjærleikann. Gal. 5, 6. 1 Jóh. 3, 23.

## A) Um Skylduna vid Gud.

Vér egum ad dýrka Gud, eins og vorn Skapara, Yfirherra, stærsta Velgjerara og elskuríkasta Fødur, bædi innvortis í sálunni, med vorum þaunkum og girndum, og líka útvortis med ørdum og athøfnum.

1 Cor. 6, 20. Þér erud dýru verdi keyptir, vegsamid þessvegna Gud med ydar líkama og med ydar øndu, sem Gud á. Mal. 1, 6.

Merk: Vér egum einlæglega ad dýrka Gud, svo vér ecki einúngis bidjum hann, lofum hann og þockum honum med ordunum, edur audsýnum honum útvortis lotníngu: heldur byrjar oss líka einkum ad audmýkja oss fyrir honum í hjartanu, óttast hann og elska, líka sýna lyst og laungun í øllu voru framferdi til ad breyta eptir hans vilja, því annars verdur vor Gudsdýrkan og ad hræsni sem fyrir þeim alvísa og heilaga Gudi er mesta andstygd. 1 Sam. 15, 22. 23. Es. 1, 11—18. Matth. 6, 1—18. 23, 13—33. Mark. 1—13.

## I. Innvortis Guds-dýrkanin.

§. 1. *a*) Vér egum ad tilbidja Gud einann, því hann er vor Skapari og sá einasti og sanni Gud.

Matth. 4, 10. Jesús sagdi: Drottinn Gud þinn áttú ad tilbidja og dýrka hann, einann. Ps. 99, 5.

*b*) Hverr, sem réttilega tilbidur Gud, á med audmjúkri lotníngu-vidurkénna hans allrastærstu fullkomlegleika, halda hann fyrir hid hærsta góda, og líka vid sérhvert tækifæri audsýna í verkunum, ad hann vyrdir Gud yfir alla hluti framm.

Ps. 99, 5. Upphefjid Drottinn vorn Gud og tilbidjid fyrir hans fótskør, því hann er heilagur.

§. 2. *a*) Vér egum ad óttast Gud, því hann er heilagur og réttlátur.

Préd. 12, 13. Ottast þú Gud og haldtú hans bodord, því þad ber øllum mønnum ad gjøra. Post. Gb. 10, 35.

*b*) Gudhrædslan á ad sýna sig í því, ad vér tekum oss umhyggjusamlegann vara fyrir øllu því, sem vér holdum Gudi sé á móti.

Orðsq. b. 16, 6. Af ótta fyrir Drottni, forðast menn hið illa.

*c*) Vér egum ecki að ó t t a s t G u ð eins og ó v i l j u g i r þ r æ l a r, af qvíða fyrir straffinu, heldur eins og h l ý ð i n b ø r n, því hann er svo góður og gæðskuríkur Faðir.

Róm. 8, 15. Þér hafið ecki meðtekið þrældóms lunderni, að þér þirftuð aptur að verða hræddir, heldur hafið þér fengið óska barna hugarfar, af hverju vér køllum: Abba elskulegi Faðir! 1 Mós. b. 39, 9.

§. 3. *a*) Vér egum að e l s k a G u ð y f i r a l l a h l u t i f r a m m, því hann er vor stærsti Velgjørari, og af Kristi friðþægður Faðir.

1 Jóh. 4, 19. Látum oss elska hann, því hann elskaði oss að fyrra bragði. 1 Jóh. 5, 1.

*b*) Elskan til G u ð s ú t h e i m t i r, að h u g u r i n n i n n i l e g a gleðji sig af honum, og finni hjá sér stærstu l a u n g u n eptir að þ ó k n a s t h o n u m, með því að breyta eptir hans vilja.

1 Jóh. 5, 3. Í því er elskan til Guðs innifalin, að vér høldum hans boðorð, en hans boðorð eru ecki þúng. Ps. 18, 2.

§. 4. *a*) Vér egum ad hlýda Gudi, því hann er ecki einúngis vor ædsti, heldur og líka sá vísasti og besti Yfirherra.

Jer. 11, 4. Drottinn sagdi: Hlýdid mér og gjørid allt, sem eg hefi bodid ydur, þá skulud þér vera mitt fólk og eg skal vera ydar Gud. Post. Gb. 5, 29.

*b*) Hlýdnin vid Gud er í því innifalin, ad vér ætíd med fúsum vilja leggjum allt kapp á ad laga vort sinnislag og framferdi eptir Guds vilja til ad þóknast honum, og alvarlega taka oss vara fyrir því, ad brjóta hans bodord af ásetníngi.

Ps. 143, 10. Drottinn! kénn þú mér ad gjøra þad, sem þú vilt, því þú ert minn Gud. 1 Pét. 1, 14. 15.

§. 5. *a*) Vér egum ad reida oss uppá Gud, því hann bædi vill og gétur géfid oss tímanlega, andlega og eilífa velferd.

1 Pét. 5, 7. Kastid allri ydar áhyggju uppá Drottinn, því honum er annt um ydur. Ps. 55. 23.

*b*) Ad reida sig uppá Gud er sama, sem ad treysta honum, og er innifalid í því, ad vér séum fullkomlega sann-

færdir um, ad Gud, vegna Jesú Krists, vilji gjera oss hluttakandi í øllu því góda, sem hann hefir lofad oss í sínu ordi, líka ad hann, eptir sinni alvísu rádstefnu, vilji veita oss sína hjálp med besta máta og á hagqvæmustu tíd.

Ps. 146, 5. 6. Sæll er sá, hvørs hjálp Jakobs Gud er, sá, sem hefir stadfasta von til Guds, sem gjørdi himininn og jørdina og sjóinn og allt þad, sem er í þeim; til hans, sem heldur trygd æfinlega. Jer. Harmagr. 3, 25. 26. Róm. 8, 32.

---

## Af øllu þessu fylgir þá framvegis:

§. 6. Vér megum ecki tilbidja neitt annad í stadinn fyrir sañañ Gud, hvørki Engla, né helga menn, né sól, né túngl, né bílæti, ellegar neitt annad þvílíkt, og ecki heldur reida oss uppá þad, í stadinn fyrir ad setja vort trúnadartraust til þess sanna Guds, því hann einúngis er vor Drottinn og Skapari; annars syndgum vér á móti fyrsta Bodordinu og gjørum oss seka í afgudadýrkun.

2 Mós. b. 20, 3. 4. Drottinn sagdi: Þú átt ecki ad hafa annarlega Gudi fyrir mér.— Þú mátt ecki smída þér neina úthøggna eda annarslags mind eptir því, sem er á himninum uppi, ellegar á jørdunni nidri, ellegar í vøtnunum undir jørdunni—þú átt ecki ad tilbidja edur dýrka þad. Es. 42, 8. Post. Gb. 17, 29.

§. 7. Vér megum ecki elska sjálfa oss, ellegar neitt annad, meir enn Gud eda jafnt Gudi, ecki heldur megum vér treysta uppá sjálfa oss, adra menn ellegar adra hluti, meir enn uppá Gud, vegna þess hann einn er vor almáttugi og stærsti velgjørari.

Jer. 17, 5. Svo sagdi Drottinn: Bølvadur veri sá madur, sem treystir uppá manneskjuna og hefir holdid fyri sinn arm—ellegar heldur ad sér sé óhætt med vanmáttugrar manneskju varatekt —og hvers hjarta víkur frá Drottni.

Ordsq. b. 3, 5. Treystu Drottni af øllu þínu hjarta, en reiddu þig ecki fast á þitt hyggjuvit.

§. 8. Vér egum daglega ad strída móti þeim syndsamlegu girndum, sem Gudi eru á móti, og aldrei brjóta

hans boðorð af ótta fyri mönnum, eður elsku til þeirra, því hann er sá heilagur Guð, hvern vér egum að óttast, og líka sá góður og vísdómsfullur Drottinn, sem vér egum að elska og hlýða framyfir alla hluti.

1 Jóh. 2, 15—17. Elskið ecki veröldina og ecki þá hluti, sem í henni eru; ef nockur elskar veröldina, þá er elska til Föðursins ecki í honum; því allt það, sem í veröldinni er, sem er: lyst holdsins, fýsn augnanna og drambsamt líferni, það er ecki af Föðurnum, heldur af veröldinni. Veröldin forgengur og hennar lystíngar, en sá, er gjörir eptir Guðs vilja, blífur að eilífu.

Orðsqv. b. 1, 10. Son minn! þegar illir skálkar locka þig, þá fylg þeim ecki.

§ 9. Vér egum að auðsýna vorum náúnga einlæga elsku, til merkis um, að vér án yfirdrepskapar elskum Guð, sem vill að kjærleikurinn sé eins ríkur hjá oss, eins og hann er hjá sjálfum honum; þaraðauki egum vér að leggja kapp á, að breyta eptir Guðs vilja í öllum hlutum.

1 Jóh. 4, 21. Þetta boðorð höfum vér af honum: að hverr, sem elskar Guð, hann á

líka ad elska sinn bródur. 1 Jóh. 3, 17. 18. 4, 7—13.

1 Jóh. 2, 5. Hverr, sem hans ord vardveitir, í honum er. sannarlega elskan til Guds fullkomin. Jóh. 15, 14.

Merk: Pau Skylduverk, sem vidvíkja innvortis Guds-dýrkun, eru í stuttu máli innfærd í Lúthers útleggíngu yfir fyrsta Bodordid í Frædunum.

---

## II. Utvortis Guds-dýrkanin.

§. 1. *a*) Ver egum ad lofa og vegsama Gud, því hann er sú fullkomnasta og ædsta Vera.

Ps. 72, 18. 19. Lofadur veri Drottinn Gud, Israels Gud! hann, sá einn gjørir dásemdar verkin; og blessud sé hans dýrdarfulla hátign ad eilífu, og øll lønd uppfyllist med hans dýrkun!

*b*) Gud lofast og vegsamast þegar vér annadhvert med bænum, sálmum edur samtali vid adra, hrósum Guds ypparlegu eginlegleikum og miklu dásemdar-verkum af hlecku hugar-þeli, sem fullt er af heilagri lotníngu fyrir honum.

Ps. 145, 3. 4. Mikill er Drottinn og mjøg loflegur, hans makt er óransakanleg; sérhver kynslóð mun fyrir annari hrósa þínum verkum, Drottinn! og kunngjøra þitt veldi.

§ 2. a) Vér egum að þacka Gudi, því hann veitir oss svo mikla velgjørn- ínga, og audsýnir oss svo mikla náð vegna Jesú Krists.

Eph. 5, 20. Þackið ætíð Gudi Fødur fyrir alla hluti, í nafni vors Drottins Jesú Krists. 1. Thess. 5, 18.

b) Ef vér egum að géta þackað Gudi réttilega, þá ber oss að kannast við og audmjúklega játa, að Guds mikla miskunsemi við oss er lángtum meiri enn vér høfum tilunnið, og þaraðauki egum vér að færa oss hans velgjørn- ínga réttilega í nyt, eins og hann hefir tilætlað.

Ps. 118, 1. Þackið þér Drottni, þvíað hann er góður, og hans miskunsemi varir ei- líflega. Ps. 105, 1.

§ 3. a) Vér egum að biðja Guð og ákalla hann, því hann einn ræður fyrir vorri tímanlégri og eilífri velferð, þar Kristur, vor Tálsmaður, hefir einninn

opnad oss adgáng til hans, svo sem vors gædskuríka og elskulega Födurs.

Lúk. 11, 9. Jesús sagdi: Bidjid, þá mun ydur gésast; leitid, þá munud þér finna; knýid á, og mun fyrir ydur upplokid verda. Ps. 50, 15. 145, 18. 19.

b) Þad heitir bæn og ákallan, þegar vér framberum fyrir Gud, annadhvert í hugánum edur med munninum vora taungun eptir einhverju gódu, sem oss er lofad í hans ordi, og sem oss sýnist naudsynlegt til vorrar egin edur annara velferdar.

1 Jóh. 5, 14. Þessi er sú djørfúng, sem vér høfum til hans, ad ef vér bidjum um nockud eptir hans vilja, þá heyrir hann oss.

§. 4. Þared Sunnudagurinn er tilskickadur til opinberrar Guds dýrkunar, þá á sérhverr kristinn madur ad fara til kirkju, sér og ødrum til uppbyggíngar af Guds orda heyrn og lestri, líka uppbyggíngar af því, ad lofa Gud og þacka honum sameginlega med ødrum sínum samkristnum, svo þeir innbyrdis stadfestist í dygd og gudhrædslu; og frá því á eckért ad hindra oss, nema

sjúkdómar, eda ennur þvílík forføll, sem ecki verdur hjá komist.

2 Mós. b. 20, 8. Drottinn sagdi: Minnstu ád halda helgann hvíldardaginn. Lúk. 11, 28.

Cól. 3, 16. Látid Krists ord búa ríkuglega medal ydar, svo ad þér kénnid og áminnid ydur sjálfa innbyrdis med allskonar vísdómi og sýngid fagra sálma, lofsaungva og andleg qvædi fyrir Drottni í ydar hjørtum. Hebr. 10, 25.

## Hér af fylgir enn fremur:

§. 5. *a*) Vér megum hverki brúka Guds nafn gáluslega né athugalaust, allrasízt vanheidra það med nockurslags misbrúkun, miklu heldur erum vér skyldugir til ad lofa og vegsama Gud.

2 Mós. b. 20, 7. Drottinn sagdi: Þú átt ecki ad leggja nafn Drottins Guds þíns vid hégóma, því Drottinn mun ecki láta þann óstraffadann, sem misbrukar hans nafn.

*b*) Guds nafn vanheidrast med ad formæla, þegar vér annadhvert í Guds eda Krists nafni óskum ílls sjálfum oss eda ødrum. Slíkar formælíngar géta og skéd med mørgu ødru móti

sem auglýsir allteins blygdunarlaust sinnislag, er ecki svísist neins í Guds allrahelgustu nálægd, né géfur gaum ad, hversu mjeg hver ein manneskja á ad elska sjálfa sig og náúngann.

Jak. 3, 10. Af sama munni framgengur bædi blessan og bølvan; brædur mínir! þetta má ecki svo tilgánga. Róm. 12, 14.

c) Guds nafn vanheidrast med ad sverja, þegar einhverr í daglegu tali gálauslega vitnar til Guds eda Krists, til ad stadfesta þar med ord sín.

Matth. 5, 34—37. Þér skulud øldúngis ecki sverja, en ydar ræda skal vera já, þegar játa skal, og nei, þegar neita á, því hvad sem þar er framyfir, er vondt.

§. 6. a) Þegar vér egum opinberlega ad sverja, megum vér ecki gleyma því, ad sá alvísi Gud, hvern vér køllum til vitnis, er bædi réttlátur og heilagur Gud, sem hatar allt óhreinlyndi, og ad hann mun straffa þá, sem sverja ránglega, því þeir vanbrúka hans nafn til ad hylja med íllsku og ránglndi.

2 Mós. b. 20, 16. Drottinn sagdi: Þú átt ecki ad bera falskann vitnisburd á móti þínum náúnga.

Zach. 5, 4. Eg lét bølvun útfara — segir Drottinn Zebaoth — svo hún komi yfir þjófsins hús og þess, sem sver ránglega vid mitt nafn. Mal. 3, 5.

*b*) Menn sverja eid eptir yfirvaldsins skipun, stundum til stadfestíngar uppá, ad vér skulum eckért segja edur vitna annad enn þad, sem vér vitum fyrir víst ad satt er; og stundum til fullvissu um, ad vér viljum trúlega lifa eptir því, sem oss er fyrisett og vér høfum undirgengist.

Hebr. 6, 16. Mannesskjurnar sverja vid þann, sem er ædri enn þeir sjálfir, en sá eidur gjørir enda á allri þrætu til ad fá fullvissu. 5 Mós. b. 6, 13.

*c*) Hverr, sem fremur meinsæri eda sver ránglega, kann ad álítast ecki einúngis eins og blygdunarlaus gudlastari, vegna þess hann manar hins alvísa Guds réttlæti móti sér, heldur og líka eins og fjandmadur sinna samkristinna, hverra velferd og æru hann opt spillir, svo sá saklausi verdur fyrir hallanum, en hinn seki sleppur óstraff-

adur og fær aptur tækifæri til að koma meiru íllu af stað.

1 Tím. 1, 10. Postulinn Páll leggur meinsærismenn að jøfnu við mordíngja og verstu íllvirkja.

§. 7. Vér megum ecki fara með galdur, sem er hjátrúar- og heimsku-full vanbrúkan á Guðs orði, til að fremja kukl eða særa, ellegar til annara þvílíkra heimskulegra fyritekta, af rángri ímindun um, að menn með þessu géti læknað manneskjur eða fénað, sýnt hverr stolið hafi, varnað tjóni og ólucku, eða annað þvíumlíkt.

5 Mós. 5. 18, 10—12. Enginn á að finnast hjá þér, sem fer með spádóma, eða er dagveljari, ellegar tekur mark á fugla qvaki, ellegar fremur kukl, edur særínga-maður, ellegar fer til spásagnar manna, ellegar útþýðir fyrirburði, ellegar leitar frétta af framliðnum, því hverr, sem þvílíkt gjørir, er andstyggilegur fyrir Drottni.

§. 8. a) Vér megum ecki vanhelga hvíldardaginn með ónauðsynlegri vinnu, því þann dag egum vér sérílagi, eptir Guðs boði, að halda heilagann með andakt og guðrækilegum umþenkíngum.

Ps. 95. 1. 2. Komid! látum oss med gladværd lofsýngja Drottni! látum oss af fagnudi hátt lofsýngja vorum volduga Frelsara! látum oss koma fyrir hans ásjónu med þakkargjørd.

b) Pad er sanngjarnlegt og Guds vilja samqvæmt, ad Sunnudaguriun sé mennum og sképnum til hvíldar og endurlísgunar eptir vinnu þeirra; þessvegna kallast líka þessi dagur, sem kristnir menn halda heilagann í Krists upprísu minníngu, ennþá hvíldardagur.

2 Mós. b. 23, 12. Sex daga skaltú verk þitt vinna, en sjøunda daginn áttú ad hafa fyrir hvíldardag, svo ad þinn uxi og þinn asni géti feugid hvíld og þinnar ambáttar sonur og sá framandi géti endurnært sig. 2 Mós. b. 20, 8—11.

Merk: Skylduverkin, sem vidvíkja útvortis Gudsdýrkun, eru stuttlega útmálud í ødru og þridja Bodordum Frædanna.

---

## B) Um skylduna vid sjálfa oss.

Vér egum ad elska sjálfa oss og einkanlega láta oss vera annt um vor-

ar sálar velferd; líka egum vér ad stunda eptir sannarlegu gagni líkama vors, sem og ad efla med leyfilegum hætti vora tímanlega velferd, eins og samqvæmt er Guds ordi og vllia.

Matth. 6, 33. Jesús sagdi: Leitid fyrst Guds rikis og þess réttlætis, sem honum er þócknanlegt, þá munud þér fá í vidbót allt, sem þér medþurfid.

Merk: Manneskjan elskar sig ecki siálfa réttilega, þegar hún sækist einúngis eptir ad sedja sínar jardneskar girndir, án þess ad hirda um sína sáluhjálp, eda géfa gætur ad því, sem hún er bædi Gudi og ødrum mønnum skyldug um.

---

## I. Umbyggja fyrir sálunni.

§. 1. Vér egum ad láta oss vera umhugad um, ad vor skynsemi upplýsist meir og meir, med skynsamlegri þeckíngu, sérdeilis um Guds vilja og hans rád til vorrar sáluhjálpar.

2 Pét. 3, 18. Varid í vors Drottins og Endurlausnara Jesú Krists nád og þeckíngu. Ordsqv. b. 2, 10. 11. 1 Cor. 14, 20.

§. 2. Vér megum ecki láta vorn vilja stjórnast af neinum vondum til-

hneigíngum, heldur egum vér af fremsta megni kappkosta ad laga þær eptir því, sem vorri skynsemi sýnist ad vera rétt og tilheyrilegt, eptir Guds orda reglu.

Ordsqv. b. 16, 32. Sá, sem stjórnar gédi sínu, er betri enn sá, sem yfirvinnur borgir. Gal. 5, 24.

§. 3. Vér megum ecki affaka vorar ávirdíngar, heldur képpast eptir, eins og Gud hefir látid Krist kénna oss, ad sjá æ meir og meir vid þeim og afleggja þær.

2 Cor. 7, 1. Med því vér höfum þvílíkt fyrirheit, mínir elskanlegir! þá látum oss hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans, og höldum áfram í helguninni med gudhrædslu. 1 Jóh. 1, 6.

§. 4. Vér egum med gaumgæfni ad vaka yfir samvitsku vorri, svo vér ecki vísvitandi ofþýngjum hana med neinni synd.

Post. Gb. 24, 16. Postulinn Páll sagdi: Eg æfi sjálfann mig í ad hafa jafnan óskérdta samvitsku fyrir Gudi og mönnum.

§. 5. Vér egum opt ad þenkja um daudann, sem skjótt gétur ad óvörum yfirfallid oss, þó svo, ad vér hverki skélfumst af honum, ellegar lifum med sorg og

óróſemi, heldur á þad ad þéna til þeſs, ad vér því betur undirbúum oſs í ſønnum Guds ótta til sáluhjálplegrar burtfarar.

2 Cor. 5, 8. 9. Vér erum hughrauſtir og høfum miklu meiri lyſt til ad vera fjærlægir frá líkamanum og heima hjá Drottni, þeſsvegna kappkoſtum vér líka, hvert ſem vér erum heima eda fjærverandi, ad vera hönum þóknanlegir. Pſálm. 90, 12. Phil. 1, 23.

---

## II. Umhyggja fyrir líkamanum.

§. 1. Vér megum hverki med áſetningi taka ſjálfir af oſs lífid, ſem er ſú yppárſta gáfa, er Gud hefir géfid oſs, né viljandi ſkada vora limu edur heilſu, því þar med reynum vér til med heimſkulegri ofdirfſku ad taka rádin af Gudi, ſem einſamall hefir vald yfir lífi og líkama manneſkjunnar, en ſviptum náúngann þeirri adſtod, ſem hann med rétti mátti af oſs heimta; þaradauki breytum vér ſvo grimdarlega vid ſjálfa oſs, ad ecki finnaſt dæmi til ſlíks medal ólmuſtu villudýra.

Róm. 14, 7. 8. Enginn af oſs hefir ráð á ad lifa edur deya eptir vild ſinni, því hvert

sem vér lifum, þá erum vér á Drottins valdi, ellegar deyum, þá erum vér eins í Drottins valdi, það er að skilja: hvert, sem vér lifum ellegar deyum, þá á Drottinn ráð yfir oss. 1 Cor. 6, 19. 20. 1 Sam. 31, 4. 2 Sam. 17, 23. Matth. 27, 5.

§. 2. Vér egum að fordast allt óhóf í mat og dryck, sem einúngis spillir heilsunni og eydir vorri formegun, en gjerir oss óhæfilega bædi til að lofa Gud og líka vinna það, sem oss ber að gjera.

Lúk. 21, 24. Jesús sagdi: Varid ydur sjálfa að ydar hugskot aldrei ofþýngist af ofáti edur ofdrykkju. Róm. 13, 13.

Gal. 5, 21. Ofdrykkja og ofát teljast med þeim hlutum, um hverja Postulinn Páll segir: að þeir slíkt gjöri, muni ecki ödlast Guds ríki. Ordsqv. b. 23, 20. 21.

§. 3. Vér egum að halda oss frá hórdómi og allslags lausæti, bædi innvortis í þaunkunum og útvortis med verkinu; því þar af spillist líkaminn og sálin saurgast, svo hún verdur óhæfileg til að hugsa um nockud gott, og missir alla laungun eptir dygd og Guds ótta, en audsýnir því frekar sínar saurugu girndir í ordum og vidmóti, edrum til hneixlis.

2 Mós. b. 20, 14. Drottinn sagdi: Þú átt ecki ad drýgja hór. Matth. 5, 27. 28.

1 Thess. 4, 3—5. Sá er vilji Guds, ad þér helgist og umflýid hóranir, svo hverr og einn stundi ad halda sínum líkama í hreinlífi og sóma, en ecki girndarbruna eins og heidíngjarnir, sem ecki þeckja Gud.

Eph. 5, 3—5. Eptir sem heilögum hæsir, á hverki frillulífi né nockurskonar óhreinleiki edur ágirni svo mikid, sem nefnast medal ydar, né blygdunarlevsi, né fíblslegt hjal, edur gárúngaháttur, hvad ecki er sómasamlegt, heldur miklu fremur þackargjörd; því þad vitid þér ad enginn frillulífis madur, edur óhreinn, edur ágjarn, hverr ad er skurdgoda dýrkari, hefir hlutskipti í Kríśts og Guds ríki. 1 Cor. 6, 15—20.

**Merk:** J Frædunum er vid sjötta Bodordid stutt útskíring um kristilegt skírlífi, og í stöttu Bæninni finnst uppörfan til ad bidja Gud um nád og styrk, ad standa á móti þeim freistíngum, sem í þeim efnum kynnu ad mæta oss.

### III. Umhyggja fyrir vorri tímanlegri velferd.

§. 1. *a*) Vér egum kappkosta ad efla vora velgengni, bædi med ástundun í voru rétta kalli og embætti, og med forsjállegri sparsemi, svovel sjálfum oss til gagns, sem og líka til ad géta hjálpad edrum, er vidþurfa.

Post. Gb. 20, 34. 35. Postulinn Páll segir til Ephesus-manna: Þér vitid sjálfir, ad þessar hendur hafa fyrir mér unnid til minnar naudþurftar og þeirra, sem med mér vóru. Allt sýnda eg ydur, ad svo byrjar oss ad vinna og veika ad annast og minnast orda Drottins Jesú, þar hann sagdi: sælla er ad géfa enn þyggja. 1 Tím. 6, 17. 18.

*b*) Í því ad stunda gagn vort, egum vér ad varast óleglegann ávinníng eda ágirnd og ecki sækjast eptir audæfum, sem opt misbrúkast til ofmetnadar og óhófs.

1 Tím. 6, 9. 10. Þeir, sem ríkir vilja verda, falla í freistni og snørur og margskonar heimskulegar og skadnæmar girndir, sem manneskjunum sökva í eydileggíngu og tøpun, því ágirndin er rót alls ills. Lúk. 12, 15. 1 Cor. 6, 10.

§. 2. *a*) Vér egum ad keppast eptir ad ávinna oss heidur, vera í afhaldi og reiknast trúverdugir af vorum medbrædrum, þó saint ecki med odru enn rádvendni og kostgæfni í voru rétta kalli og embætti.

Phil. 4, 8. Kjærir brædur! hvad, sem sannarlegt er og sidsamlegt, hvad réttvíst er, hvad skirlift er og ástsamlegt, hvad, sem er gott afspurnar, hvad dygdugt er, hvad hrósverdt er, hugsid þar eptir!

*b*) Þótt vér høfum edlast allann þann heidur, sem vér æskja kynnum, megum vér samt ecki falla til metnadar edur drambsemi, heldur ætíd stunda kristilegt lítillæti, því vér egum ad vita, ad alla hluti høfum vér af Gudi þegid, og ad oss yfirsjest optlega, svo vér þurfum fyrirgéfníngar vid.

Gal. 5, 26. Látum oss ecki sækja eptir hégóma hrósi, og hverki øgra hverr ødrum, né øfunda hverr annann. Róm. 12, 10.

1 Pét. 5, 5. Verid skrýddir med lítilæti, því Gud mótstrídir dramblátum en lítillátum géfur hann nád. Matth. 23, 12. Ordsqv. b. 29, 23.

§. 3. *a*) Vér megum njóta ánægju í þessu lífi, af því að brúka réttilega þá mörgu góðu hluti, sem Guð hefir sínum skepuðu skepnum til gagns og gleði géfið, líka höfum vér mikla ánægju af vinnu vorri, þegar vér tilbærilega og með glaðværu sinnislagi gjörum hana.

Ps. 31, 8. Gleðja skal eg mig, Drottinn! og vera glaðvær af þinni miskunsemi. Phil. 4, 4. Oiðsqv. b. 17, 22.

*b*) Í vorri gleði egum vér að taka oss vara fyrir öllu því, sem stríðir á móti góðri siðsemi, eður því, sem Guð hefir boðið í sínu orði, og ecki álíta hana svo sem helzta tilgáng vinnu vorrar, heldur eins og ávöxt af henni.

1 Cor. 7, 31. Þeir, sem brúka þennann heim, ega að vera eins og þeir, sem ecki misbrúka hann.

§. 4. *a*) Vér egum að auðsýna oss þolinmóða í mótlætinu, svo vér hvorki örvæntum né látum til vor heyra výl og harmatölur, heldur séum ánægðir með það, sem Guð vill vera láta, í vissri von um, að hann ecki uppáleggi

oss þyngri byrdi, enn hann sjálfur vill géfa oss krapta til ad bera, og trúum stadfastlega, ad eptir hans tilætlun skuli þetta andstreymi þéna oss til gagns og góda.

Hebr. 10, 35. 36. Kastid ecki burt ydar trugga mód, hver mikil laun mun ødlast; því þér þurfid á støguglyndi ad halda, svo ad nær þér hafid gjørt Guds vilja, fáid ad ødlast þad, sem ydur hefir verid lofad. Róm. 8, 18.

*b*) Vorar þjáníngar géta opt orsakast med ýmsu móti af sjálfum oss, en sá alvísi Gud lætur oss þær ad hendum koma til þess, vér athugum vora bresti, betrum vorn lifnad, heldum voru sinni því meir frá hégóma veraldarinnar og lærum ad leita vorrar kjærustu gledi af ad halda oss til hans med bæn og andakt.

Hebr 12, 5. 6. Minn son! vyrd ecki litils typtun Drottins og øtvýnlast ecki þá hann ávítar þig; því hvern, sem Drottinn elskar, þann agar hann. Ps. 119, 7. Róm. 5, 3—5.

§. 5. Vér egum ad fordast allt ydjuleysi, hvert ad orsøk til mikils ílls,

og taka oss vara fyrir ad vera ødrum til þýngsla, heldur egum vér þaramót med kostgæfilegri ydni og ástundun, hvert í sínu standi, ad leita vorrar atvinnu, því Gud hefir géfid oss kraptana til þess, ad vér skulum brúka þá, og efla þar med vort egid og annara gagn.

1 Thess. 4, 11. 12. Vér áminnum ydur, kjærir brædur! ad þér kostgæfid ad lifa í spekt og ydvart egid ad stunda, og ad vinna med ydar egin høndum, eins og vér høfum bodid ydur, svo ad þér gétid sómasamlega umgengist þá, sem ecki eru af søfnudinum og ad þér séud uppá engann komnir. 2 Thess. 3, 11. 12. 1 Pét. 4, 11.

---

## C) Um Skylduna vid Náúngann.

Vér erum skyldugir ad elska vorn náúnga eins felskvalaust og sjálfa oss, þessvegna egum vér ad breyta svo vid hann, eins og vér viljum ad hann breyti vid oss. Þar fyrir egum vér ad bera umhyggju fyrir hans sálu, hans líkama og hans tímanlegu velferd,

Matth. 7, 12. Jesús sagdi: Hvad, sem þér viljid mennirnir gjøri ydur, þad egid þér líka þeim ad gjøra, því svo er kénnt í løgmálinu og Spá-manna-bókunum. 3 Mós. b. 19, 18.

Merk: Sérhverr sá, sem er manneskja, er líka vor náúngi og hefir sama rétt eins og bródir til kjærleika vors og þénustusemi, hvert sem hann er innlendur eda útlendur, kristinn eda gydíngur, tyrki eda heidíngi, vinur eda óvinur, ædri eda lægri stéttar, ríkur eda fátækur, og þegar hann þarf hjálpar vid af oss, þá erum vér skyldugir til ad hjálpa honum af fremsta megni, án manngreinar álits. Lúk. 10, 25—37. Post. Gb. 17, 26.

## I. Umhyggja fyrir Sálu Náúngans.

§. 1. Vér egum, svo mikid, sem oss er møgulegt, ad greida veg vors náúnga til betra lífs í ødrum heimi, og þessvegna hjálpa honum bædi med nytsamlegri tilsøgn, gódum áminníngum, kjærleiksfullum advørunum og umfram allt med gódu eptirdæmi, því Kristur hefir endurleyst hann eins og oss til þess

að hann ásamt með oss skyldi eignast ei-lífa sáluhjálp.

Jak. 5, 19. 20. Brædur mínir! ef nock-urr á medal ydar villist frá sannleikanum, en einhverr umvendir honum, sá skal vita, ad hverr, sem snýr syndaranum frá villu hans vegar, mun frelsa sálu frá daudanum og hyl-ja fiølda af syndum. 1 Thess. 5, 14. Hebr. 10, 24.

§. 2. Vér egum varast ad kéfja nid-ur lyst náúnga vors til þess, sem gott er, þessvegna megum vér ecki géfa honum hneirli, med syndsamlegum ordum edur ó-gudlegu framferdi, ecki heldur koma hon-um til þess, sem illt er, annadhvert med hótunum, til-lokunum, edur med raung-um fortølum.

Lúk. 17, 1. 2. Jesús sagdi vid sína Lærisveina: Omøgulegt er ad hneixlanir komi ecki, en vei þeim manni frá hverjum þær koma! þarfara væri þeim ad mylnu-steinn hengdist um háls hon-um og honum væri søckt í sjáfardjúp, enn hann hneirli einn af þessum smælíngjum.

2 Tím. 3, 13. Vondar manneskjur og svik-arar vegna meir og meir; þeir svíkja og verda sviknir.

§. 3. *a*) Vér egum ecki láta egna oss til heiptar- reidi móti vorum náúnga eda fá hatur til hans og leitast vid ad hefna vor, þegar hann misbrýtur vid oss, svo vér gjørum honum ecki hjarta- sorg, til qvalar á sálu eda líkama.

Eph. 4, 26. 27. 31. Ef þér reidist, þá syndgid ecki, látid ecki sólina undirgánga yfir ydar reidi — Géfid ecki tækifæri þeim, sem ber róg — Øll beiskyrdi, heipt, reidi, hávadi og íllyrdi séu lángt frá ydur, ásamt allskonar íllmennsku.

1 Jóh. 3, 15. Hverr, sem hatar bródur sinn, sá er mordíngi, en þér vitid, ad engimn mordíngi hefir eilíft líf. Jak. 1, 19. 20.

*b*) Pad er kristileg skylda, ad vér med hógværd umberum breiskleika vors náúnga, þegar hann hefir gjørt oss nockud á móti, og ad vér fyrigéfum honum, eins og Gud fyrirgéfur sjálfum oss vegna Krists. Auk þessa egum vér svo mikid, sem oss er møgulegt, med vinsamlegum fortølum ad koma honum til ad sjá ad sér, svo hann vari sig vid ad halda áfram í syndunum.

Mark. 11, 25. 26. Jesús sagdi: Fyrirgéfid, ef þér hafid nockud á móti einhverjum, svo

ad ydar Fadir, sem er á himnum, fyrirgéfi ydur líka ydar brot; en ef þér fyrigéfid ecki, þá mun ydar Fadir, sem er á himnum, ecki heldur fyrigéfa ydar afbrot.

Cól. 3, 12. 13. Svo skrýdist nú, eins og Guds útvaldir, heilagir, og elskanlegir, hjartfólginni miskunsemi, gódvilja, audmýkt, hóglyndi, línglundar-gédi, umlídid hverr ann ann og ef nockurr hefir klögumál mót ödrum, þá fyrigéfid þad hverr ödrum innbyrdis; eins og Kristur hefir fyrigéfid ydur, svo gjörid þér og einnig.

§. 4. *a*) Vér egum hverki ad hata jafnvel vora óvini, sem annadhvert heimuglega edur opinberlega vilja gjöra oss skada, né í nockurn máta sjálfir hefna vor á þeim, svo vér ecki géfum þeim efni til stærri vondsku, eda séum orsök í þeirra sálar töpun.

Róm. 12, 14. 17. 19. Blessid þá, sem offsækja ydur, blessid en bölvid ecki—gjaldid engum íllt fyrir íllt—ef mögulegt er, þá hafid frid vid alla menn, svo mikid, sem í ydar valdi stendur; hefnid ydar ecki sjálfir.

*b*) Þegar óvinir vorir sækjast eptir ad skada vort líf, spilla vorri velferd, eda gjöra oss vidskila vid vort góda mann-

orð, megum vér verja oss móti þeim með almennilegum Réttargángi, en vera samt ætíð reiðubúnir að sættast við þá, biðja fyrir þeim og hjálpa þeim eptir megni, ef þeir þess viðþurfa, eins og Guð hefir auðsýnt oss náð Krists vegna, og fyrir hans sakir vill fyrirgéfa sjálfum oss.

Matth. 5, 25. 44. Jesús sagði: Vertú strax viljugur til að sætta þig við þinn mótstøðumann, meðan þú ert enn á vegi með honum. Eg segi yður: elskið óvini yðar, blessið þá, sem yður bølva, gjørið þeim gott, sem yður hata og biðjið fyri þeim, sem yður gjøra skaða og ofsækja yður, svo að þér séuð børn Føðurs yðar, sem er á himnum. v. 45—48. Róm. 13, 3. 4.

Róm. 12, 20. 21. Ef óvin þinn húngrar, þá géf honum að eta, ef hann þyrstir, þá géf honum að drecka. Lát ecki hið vonda yfirbuga þig, en yfirvinn hið vonda með góðu. Róm. 5, 8. 10.

§. 5. a) Vér hefum engann rétt til að fyrirdæma nockra manneskju, þó hún hafi rángar meiníngar, eður vegna þess hún er ecki sömu trúarbragða, sem vér, heldur egum vér, eins og sam-

kristnir, ad fela vora frávilltu bræður Guds miskun á hendur, og gledjast af þeirri von, ad þeir muni verda hluttakandi í Krists endurlausn, þegar þeir hafa vandad sitt framferdi eptir þeirri þekkíngu, sem þeir hafa haft færi á ad ødlast.

Post. Gb. 10, 34. 35. Eg reyni í sannleika, ad Gud fer ecki í manngreinar álit, heldur er hverr sá, sem óttast hann og gjørir hvad rétt er, honum þóknanlegur, af hverri þjód, sem hann er. Róm. 14, 4. 10. 13.

b) Vér megum eldúngis enga grunsemd fá, ad þeir hafi drýgt nockurn sérdeilis glæp, sem ratad hafa í eymd og volædi, því Gud úthlutar eptir sinni alvísu rádstøfun sorg og gledi hverjum, sem hann vill, ecki til ad straffa þá, heldur ødrum til vidvørunar.

Lúk. 13, 2. 3. Jesús sagdi: Meinid þér, ad þessir Galíliskir — hverra blódi Pílatus hafdi úthellt — hafi verid syndugri enn allir adrir Galíliskir, þó þeir hafi ordid fyrir þessu? Nei! segi eg ydur; heldur, ef þér takid ecki sinnaskipti, munud þér allir eins fyrirfarast. Jóh. 9, 1—3.

## II. Umhyggja fyrir Líkama Náúngans.

§. 1. Vér megum ecki leggja hendur á vorn náúnga, hverki til að firra hánn lífi, né gjøra heilsu hans og limum skaða, því þar með rænum vér frá honum því stærsta góða, sem Guð hefir géfið honum í þessu lífi, og sú óréttvísi er svo viðurstyggileg í Guðs augliti, að hann líka vill hún verði stroffuð hér í heimi, eptir Yfirvaldsins tilhlutun.

2 Mós. b. 20, 13. Þú átt ecki að slá mann-eskju í hel. Gal. 5, 20. 21.

1 Mós. b. 9, 6. Hverr, sem úthellir blóði uockurrar manneskju, hans blóð skal af øðrum manni úthellt verða; því Guð gjørði manninn eptir sinni mind. Róm. 13, 3. 4.

§. 2. Vér megum ecki uppáleggja vorum náúnga meira erfiði enn hann gétur afkastað, svo vér ecki veikjum hans krapta, ecki heldur megum vér gjøra honum hjarta-sorg, af hverri lífi hans eða heilbrigði kynni verða hætt.

Tít. 3, 2. Minntu þá á, að þeir ecki lastyrði neinn, séu ecki þrætugjarnir, heldur ept-

irlátir, og audsýni allskonar hógværd vid hvern mann.

§. 3. Vér egum ad vara náúngann vid því, sem honum er skadvænlegt, en ráda honum til þess, sem honum er hollast, svo hann ecki med óframmsýni stytti líf sitt; þaradauki egum vér ad hjálpa honum eptir efnum, og engannveginn synja honum um vora lidveitslu, þegar naudsyn krefur.

Phil. 2, 4. Sérhverr ydar gæti, ecki eingis ad sínu gagni, heldur og líka annara. Ordsgv. b. 12, 15.

Merk: Vor skylda, í tilliti til náúngans lífs og líkama, er í stuttu máli framsett í fimmta Bodordi Frædauna.

## III. Umhyggja fyrir tímanlegri velferd Náúngans

§. 1. a) Vér megum ecki med neinu géfa tilefni til, ad náúngi vor missi nockud af sínu gózi edur fjármunum, sem eru hans egin, og Gud hefir honum géfid til ad ebla med hans velferd, heldur egum vér ad bera umhyggju fyrir, ad hann hafi allt sitt óskaddad.

2 Mós. b. 20, 17. Drottinn sagdi: Pú átt ecki ad girnast hús náúnga Píns.

*b*) Enginn má stela frá sínum náúnga, edur leynilega gjøra hann vidskila vid neitt af Pví, sem hann á, móti vilja hans og vitund.

2 Mós. b. 20, 15. Drottinn sagdi: Pú átt ecki ad stela.

*c*) Enginn má ræna edur taka med ofríki frá sínum náúnga Pad, sem honum tilheyrir.

1 Cor. 6, 10. Pjófar og ræníngjar skulu ecki fá Guds ríki.

*d*) Enginn má svíkja sinn náúnga, edur draga undir sig nockud af Pví, sem honum tilheyrir, med undirhyggju og vélum, svo sem med ráugri vigt eda mælir, ónýtum varníngi, okri, edur ødrum Pvílíkum svikum og prettvísi.

1 Tess. 4, 6. Enginn svíki edur áseilist bródur sinn í vidskiptum, Pví Drottinn er sá, sem hefnir alls Pvílíks. Ordsqv. b. 11, 1.

*e*) Enginn má locka fólk eda fé med óleyfilegum hætti frá sínum náúnga honum til skada, hverki med hótunum né vélum.

2 Mós. b. 20, 17. Drottinn sagdi: Þú átt ecki ad girnast þíns náúnga ektaqvinnu, ellegar hans þjón, ellegar hans þjónustuqvinnu, ellegar hans uxa, ellegar asna, ellegar nockud, sem heyrir þínum náúnga til.

§. 2. a) Vér egum ad láta náúnga vorn njóta réttar í öllum hlutum, og engannveginn gjöra honum órétt, hvert sem hann er ríkur eda fátækur, ædri eda lægri stéttar, þared bædi Guds ord og skynsemi vor banna oss ad gjöra þad ödrum, sem vér ecki viljum þeir gjöri oss.

Matth. 5, 20. Jesús sagdi: Nema ydar réttlæti taki mikid fram Skriftlærdra og Pharíseanna, þá kunnid þér engannveginn ad koma inní himnaríki. Matth. 7, 12. Es. 1, 17.

b) Hverr, sem á yfir ödrum ad segja, má ecki vanbrúka makt sína, til ad undirþryckja edur skada þá, miklu heldur á hann ad brúka hana þeim til hjálpar og adstodar.

Ordsqv. b. 14, 31. Hverr, sem nidurþryckir lítilmagnanum, sá smánar þann, sem skapadi hann, en sá heidrar Skaparann, sem miskunar sig yfir fátækann.

c) Vér megum engannveginn innihalda þeirra tilhlýdilegum launum, sem

erfida fyrir oss, heldur egum vér ad géfa þeim í réttann tíma þad, sem þeim tilheyrir.

Jak. 5, 4. Sjáid! laun verkamannanna og þeirra, sem ydar akurlønd hafa uppyrkt, sem hafa af ydur verid innihaldin, hrópa, og sláttumannanna mikla qvein, er komid til Drottins Zebaoths eyrna.

*d*) Vér egum ad bæta vorum náúnga ad fullu, ef vér uppá nockurn máta høfum ásælst hann edur gjørt honum skada.

1 Sam. 12, 3. Spámadurinn Samúel géck fram fyrir fólkid og sagdi: Hér em eg, svarid nú á móti mér fyrir Drottni og hans Smurda: hefi eg tekid frá nockrum manni hans uxa eda asna? hefi eg sýnt nockrum manni ofriki eda órétt? eda hefi eg þegid mútu og látid þannig blinda mín augu? sé svo, skal eg skila því aptur. Lúk. 19, 8. Ezech. 33, 15.

*e*) Vér egum ecki ad misunna náúnga vorum þeirra gæda, sem Guds forsjón hefir látid honum hlotnast, heldur gledjast af hans velgengni.

Jak. 3, 16. Hvar, sem øfund og deilur eru, þar er vansktckan og øll íll vidskipti.

*f*) Vér megum ecki ljúga ad vorum náúnga, edur innbirla honum ósannindi,

af hverjum annadhvert hann sjálfur eda adrir kynnu ad komast í ýmisleg vandrædi.

Eph. 4, 25. Afleggid lygar, en talid sannindi hverr vid sinn náúnga, því vér erum hverr annars limur.

§. 3. *a*) Vér megum engannveginn skérda æru náúnga vors, heldur þará móti, ad því leiti, sem í voru valdi stendur, med ellum leyfilegum hætti leitast vid, ad hann nái allri þeirri vyrdíngu, sem hann á skilid, því gott mannord og rykti eru mikil gædi í þessu lífi og eldúngis ómissandi, ef oss á vel ad gánga í voru embætti, stétt og edru því oss vidkémur.

Róm. 13, 7. Svo géfid nú ellum, hvad þér erud þeim skyldugir—þeim heidur, sem heidur heyrir. 1 Pét. 2, 17.

*b*) Vér megum ecki baktala edur ljósta óhródri upp um vorn náúnga, og þar med skérda hans vyrdíngu.

Jak. 4, 11. Hallmælid ecki hverr ødrum, brædur minir! því hverr, sem hallmælir bródur sínum og álasar honum, sá hallmælir løgmálinu og álasar því.

*c*) Vér megum ecki dæma ílla um náúnga vorn, medan hann ecki lætur sitt

vonda hjartalag í ljósi með opinberum ill- verkum.

Matth. 7, 1—3. Jesús sagði: Dæmið ekki hardt, svo þér verðið ekki hardt dæmdir, því með þeim sama dómi, sem þér aðra dæmið, munuð þér sjálfir dæmdir verða; því með þeim sama mæli, sem þér mælið út, skal yður inn aptur mælt verða. En því sjer þú flýsina, sem er í þíns bróðurs auga, en að vaglënu, sem er á sjálfs þíns auga, gætir þú ekki?

*d)* Vér egum ekki að sýna náúnga vorum forakt, hverki í orðum né við- móti, hverſu lítilmótlegur, sem hann er eður auðvirðilegur.

Matth. 18, 10. Jesús sagði: Sjáið til, að þér ekki forsmáið neinn af þessum smælíngjum. Orðsqv. 6. 14, 21.

*e)* Vér egum ekki að bera út bresti vors náúnga, heldur miklu fremur þegja yfir þeim, og heldur afsaka enn áfella hann, þegar hann er lastaður af øðrum.

1 Pét. 4, 8. Umfram alla hluti, hafið stødugann kjærleika innbyrðis, því kjærleikurinn hylur margar syndir. Orðsqv. 6. 10, 12.

§. 4. *a*) Þegar náúngi vor er **nauðstaddur**, egum vér að láta oss vera annt um að **hjálpa** honum og gjöra allt, sem oss er mögulegt, til að gjöra hans mæðu léttari og koma í veg fyrir hans eydileggíngu, þareð oss má til hugar koma, að enginn veit nema sama neyð kynni oss líka að hendum bera, og vér þá gjarnan vildum, að aðrir hjálpudu oss.
Hebr. 13, 16. Gleymid ecki að gjöra gott og útbýta, því þær fórnir þóknast Gudi vel.

*b*) Sérhverr kristinn er, eptir Krists bæmi og hans vegna, **skuldbundinn** að **hjálpa** þeim, sem eru **sannarlega naudlídandi**, og annaðhvert vegna heilsubrests edur elli ecki géta sjálfir leitað sér atvinnu, eda þeim, sem með allri sinni atorku, ecki géta unnid nægilega fyrir sér og sínum, eda þeim, sem á ómaga aldri eru munadarlausir.
Matth. 25, 35—40. Á dóms-degi mun Jesús opinberlega segja þeim gudhræddu til hróss og upplífgunar: Húngradur var eg og þér gáfud mér að eta; þyrstur var eg og þér gáfud mér að drecka; géstur var eg og þér hýstud

mig; nakinn var eg og þér klæddud mig; sjúkur var eg og þér vitjudud mín; í fáng-elsi var eg og þér komud til mín. Þad, sem þér gjørdud einum af þessum mínum minnstu brædrum, þad gjørdud þér mér. Es. 58, 7. Ordsqv. b. 19, 17. Róm. 12, 13. 15.

c) Ydjulausir húsgángsmenn og betlarar, sem hafa krapt til ad leita sér atvinnu med leyfilegum hætti, en nenna því ecki, egaecki ad fá ølmusu, heldur á ad þrýsta þeim til almennilégrar vinnu.

2 Tess. 3, 10—12. Vér søgdum ydur svo fyrir, ad sá, sem ecki vill vinna, ætti ecki heldur mat ad fá; en vér høfum frétt: ad sumir lifi í óskicki hjá ydur, sem eckért vinna, en gjøra óþarfa. Í Drottins vors Jesú Krists stad skipum vér þvílíkum og áminnum þá, ad þeir séu kyrrir vid vinnu sína og hafi sjálfir fyrir sér.

d) Vér egum, án yfirdrepskapar, ad samhriggjast med vorum náúnga, hughreysta og uppørfa hann og lidsinna hønum med allri þénustusemi.

1 Tess. 5, 14. Huggid ístødulitla, adstodid veika og umlídid hverr annann. Róm. 12, 15.

e) Ef vor náúngi verdur sundurþyckur vid adra, egum vér leggja allt kapp á ad sætta þá, koma forlíkun á, og þannig afstýra þeim skada, sem annars hefdi máské þar af hlotist.

Matth. 5, 9. Jesús sagdi: Sælir eru þeir sem fridinn semja, því þeir munu Guds børn kalladir verda. Ordsqv. b. 12, 10.

Merk: Vor skylda útilliti til góds mannords og kjármuna vors náúnga, er í stuttu máli framsett í sjøunda, áttunda, niunda og tiunda Bodordum Frædanna.

---

## D) Um Skylduna í sérhverri stétt.

Auk þeirrar almennilegu skyldu, sem á manneskjunum liggur, ad því leiti, sem þær eru manneskjur, eru líka til fleiri sérdeilislegar skyldur, sem þeim uppáleggjast, hverri útaf fyri sig, eptir því kalli og embætti, sem Gud hefir þær í sett.

1 Pét. 4, 11. Ef nockurr hefir embætti, sá þjóni eptir þeirri orku, sem Gud géfur honum, svo ad í øllum hlutum verdi Gud dýrkadur fyri Jesúm Krist.

## I. Ektamadur og Ektaqvinna.

§. 1. Eptir Guds bodi á einn madur ad lifa í hjónabandi med einni ektaqvinnu, og ega þau ad hafa hreinann kjærleika hvert til annars, bera jafnan umhyggju hvert fyrir annars tímanlegri og eilífri velferd, bidja hvert fyrir ødru, og lifa í ævarandi eíníngu, uns daudinn adskilur þau.

Matth. 19, 4—6. Jesús sagdi: Hafid þér ecki lesid: ad sá, sem í upphafi skapadi manninn, hann skóp einn mann og eina konu og sagdi: fyrir því skal madurinn yfirgéfa fødur og módur, en vera hjá eiginkonu sinni, og þau tvø skulu vera eins og ad einni manneskju. Hvad Gud hefir samtengt þad má manneskjan ecki sundurskilja.

§. 2. Madurinn á einkanlega ad elska sína ektaqvinnu eins og sjálfann sig, vyrda hana, vera henni trúr, sjá fyrir

hennar atvinnu, ráða henni heillt, og umbera bresti hennar með kjærleika.

Eph. 5, 18. Menninnir eru skyldugir að elska þeirra eginkonur eins og sína egin líkami; hverr, sem elskar eginkonu sína, hann elskar sjálfann sig.

1 Pét. 3, 7. Þér, ektamenn! búið við ydar eginkonur með skynsemi, eins og þær, sem eru breiskari konur, og audsýnið þeim vyrdíngu eins og þeim, sem líka eru samerfíngjar þeirrar nádar, að fá eilífa farsæld.

Hebr. 13, 4. Hjúskapurinn á heidurlegur haldinn vera hjá øllum, og hjónasængin óflekkuð, en fridlulifis- og hórunar - menn mun Guð straffa.

§. 3. Konan á sérílagi að **elska** sinn **ektamann** með innilegri **velvild**, vera honum **trú** og hlýðin af kjærleika, stjórna innanhúss með kostgæfni og forsjálni, og auk þess vera honum rádaholl og þénustuviljug.

Eph. 5, 22. 23. Þér, konur! verið ydar eginmønnum undirgéfnar eins og Drottni, því madurinn er qvinnunnar høfuð, eins og Kristur er safnadarins høfuð.

Tít. 2, 4. 5. Postulinn Páll vill láta kénna úngum konum: að elska þeirra ektamenn og børn,

og ad þær séu skírlífar, sidsamar, umsjónarsamar, gódlyndar og bændum sínum undirgéfnar, svo Guds ord verdi ecki fyrir lasti.

## II. Foreldrar og Börn.

§. 1. a) Foreldrarnir ega ad uppala börn sín til gudhrædslu, svo Paul læri frá barnæsku ad þeckja, elska og heidra Gud, líka ad varast syndir og lesti, því þeir eru Gudi andstyggilegir, en stunda eptir dygdum og mannkostum, því þeir þóknast Gudi; svo ega börnin ad venjast til ad setja sína von og traust einúngis til Guds nádar og miskunsemi vegna Jesú Krists.

Eph. 6, 4. Þér, fedur! ertid ecki ydar börn til reidi, heldur alid þau upp med aga og umvøndun til Drottins.

b) Líka heyrir þad til góds uppfóstturs, ad börnin venjist til ydni, sparsemi, þrifnadar, audsveipni og til ad fylgja sannleikanum án yfirhylmíngar. Foreldrarnir ega einnig ad gánga undan þeim med gódum eptirdæmum, og láta aldrei hjálída naudsynlega

hirtingu, þegar þau ecki vilja hlýda áminníngum.

Ordsqv. b. 13, 24. Hverr, sem hefir ást á barni sínu, agar þad snemma. 1 Sam. 3, 10—14. 4, 12—22.

§. 2, Börnin ega ad heidra foreldra sína og hlýda þeim í öllu gódu, elska, þacka og þjóna þeim og vera þeim til gledi med gódu og sidsamlegu framferdi.

2 Mós. b. 20, 12. Drottinn sagdi: Heidra fødur þinn og módur þína, svo þú lifir lengi í landinu.

Eph. 6, 1—3. Þér, børn! verid hlýdin ydar foreldrum Drottins vegna, því þetta er rétt: heidra fødur og módur, þad er hid fyrsta bodord, sem fyrirheiti er lagt vid: svo þér vegni vel og þú megir lifa í landinu. 2 Sam. 18, 6—18. Ordsqv. b. 23, 22. 25.

---

## III. Húsbændur og Þjónustufólk.

§. 1. a) Húsbændur og Matmædur ega ad bera umhyggju fyrir velferd síns þjónustu-fólks,

og helzt með góðu hald'a því til að vera auðsveipið, sem og yðið og reglufast í því, sem það á að gjöra. Þau skulu einnig gefa þeim tilhlýðileg föt, fæði og laun og ekki gleyma að ala önn fyrir þeirra uppfræðíngu og betrun til sáluhjálpar, líka veita þeim hjúkrun, einkum þá þau eru veik eða gemul.

Cól. 4, 1. Þér, Húsbændur! auðsýnið yðar þénurum hvað rétt og jöfnuður er, og vitið, að þér einnig hafið Herra á himnum.

*b*) Hverki má húsbóndi né húsmóðir breyta ílla við sitt þjónustufólk með íllyrðum, eða annari ólevfilegri eða ofríkisfullri aðferð; ekki heldur mega þau reyngja það með óviðurqvæmilegri tortryggni, eða herða að því um megn fram, heldur ega þau að umbera þess breiskleika með þolinmæði.

Eph. 6, 9. Þér, Húsbændur! hættið ógnunum og vitið, að yðar Herra er líka á himnum og að hjá honum er ekkért manngreinar álit.

§. 2. Þjónustufólk á þarámóti að heiðra og elska sína húsbændur og matmæður, vera þeim hlýðið og

trútt og gjøra verk sitt med ydni og ástundun, án svika eda møglunar, eins og sjálfur Gud sjái uppá þad.

Tít. 2, 9. 10. Áminn þénarana, ad þeir séu húsbændum sínum undirgéfnir og gjøri hvad þeim gédþeckt er í øllum hlutum, veri ecki svørulir né sérplægnir, heldur sýni þeim alla hollustu, svo ad þeir prýdi lærdóm Guds vors Endurlausnára í øllum greinum. Eph. 5, 6—8.

---

## IV. Yfirvald og Undirgéfnir.

§. 1. *a*) Yfirvaldid hefir, eptir Guds ordi, rétt til ad útheimta hlýdni í ellu því, sem þénar til almennilegra nota, og ecki strídir á móti Guds bodi.

Róm. 13, 1. 2. Hverr madur sé Valdstjórninni undirgéfinn, því engin er Valdstjórn, nema af Gudi, og sú valdstjórn, sem er til, er af Gudi tilskickud, svo hverr, sem mótstendur valdstjórninni, sá stendur á móti Guds skipun, en þeir, sem á móti standa, munu yfir sig leida dóms áfelli.

Post. Gb. 5, 29. Pegar Høfdíngjar Gydínganna krøfdust hlýdni í því, sem var á móti gódri samvitsku, svørudu Pétur og Jóhannes: Framar ber ad hlýda Gudi enn manneskjum.

*b*) Það er skylda Yfirvaldsins, eptir Guðs boði, að vaka yfir undirsátanna velferð, staðfesta hana með góðum Lögum, einnig að vernda þá góðu, en refsa þeim vondu og láta sérhverin ná rétti sínum, án manngreinar álits.

Róm. 13, 3. 4. Valdstjórnin er ecki góðum verkum, heldur vondum til skélfíngar. Viljir þú ecki vera hræddur við valdstjórnina, þá gjør það, sem gott er, og muntu umbun af henni fá; því hún er Guðs þénari þér til góða, en ef þú gjørir íllt, þá máttú vera hræddur, því hún ber ecki sverðið forgéfins, þared hún er Guðs þénari til að straffa þá, sem ílla breyta. 5 Mós. b. 1, 16. 17. Orðsqv. b. 22, 22. 23.

§. 2. Þeir undirgéfnu ega, vegna Guðs, að hlýða Yfirvaldinu og þess tilskipun, líka gjalda svikalaust skyldur sínar og skatta, sem útheimtast til sameginlegra nota, landsins varnar og nauðsynja, þeir ega einnig að heiðra Yfirvaldið, vera því hollir og auðsveipnir og biðja fyrir því.

Róm. 13, 5—7. Það er nauðsynlegt að vera undirgéfinn, ecki einúngis vegna straffsins, heldur og fyrir samvitskunnar sakir; því

þar fyrir gjaldid þér og skatt, vegna þess þeir eru Guds þjónar, sem vid þá þénustu eru sifeldlega bundnir. Svo géfid hverjum þad, sem þér skyldugir erud: þeim skatt, sem skatt ega; þeim toll, sem toll á; þeim ótta, sem ótti tilheyrir; þeim heidur, sem heidur heyrir.

1 Pét. 2, 13. 14. Verid undirgéfnir allskonar réttu Yfirvaldi vegna Drottins, hvert sem þad er Konúnginum, svo sem þeim yppasta, edur Landstjórnurunum, svo sem þeim, hverja hann hefir útsendt til hefndar yfir íllvirkjana, en þeim til umbunar, sem gjøra gott. 1 Tím. 2, 1. 2.

---

## V. Kénnendur og Tilheyrendur.

§. 1. a) Kénnendurnir ega ad kunngjøra Guds ord án yfirdrepskapar med allri ástundun, til uppbyggíngar, áminna og advara án manngreinar álits, þeir ega einnig láta sér innilega vera umhugad, ad børnunum sé svo skilmerkilega kénnt, ad þau hafi gagn af, líka ega þeir ad leitast alvarlega vid, ad efla sinna tilheyrenda framfor í sønnum Guds ótta til eilífrar sáluhjálpar.

Tít. 1, 9. Sá, sem er Biskup — Kénnimadur eda Tilsjónarmadur — á ad halda fast vid þann vissa lærdóm, svo hann bædi géti áminnt med heilsusamlegri kénníngu, og líka sannfært þá, er á móti mæla. 1 Pét. 5, 2. 3,

*b*) **Kénnendurnir** ega ad **gánga á undan sínum tilheyrendum med gódu eptirdæmi í lifnadi og umgengni**, vera blídir og hóglátir, bidja fyri þeim og prýda kénnínguna med óstraffanlegu framferdi.

1 Tím. 3, 2. 3. Sá, sem er Biskup — Kénnimadur og tilsjónarmadur — á ad vera óstraffanlegur, einnar konu eginmadur, árvakur, hóffsamur, sidprúdur, géstrisinn, sem sé vel fallinn til ad kénna ødrum. Enginn dryckjumadur, ecki styrjaldarsamur, einkis ósæmilegs ávinníngs gírugur, heldur sanngjarn, ecki þrætusamur, ecki ágjarn.

§. 2. **Barna uppfrædendurnir** ega ad innprenta í hjertu þess úngdóms, sem þeim er á hendur falinn, **lotníngu** fyrir **Gudi** og **Kristi**, **elsku** til þeirra, **útleggja** skiljanlega fyri honum þad, sem hann á ad læra, halda honum til **ástundunar, hæversku** og **gódra sida**, þvíad í æskunni á ad leggjast

grundvelluriun til mannesk junuar eptirfylgjandi luck u og velgengni um tíma og eilífd.

Ordsqv. b. 22, 6. Kénn þeim únga þann veg,—sem hann á ad gánga áfram til dygda og rádvendni, og þegar hann eldist, mun hann ecki af hönum víkja.

§. 3. Tilheyrendurnir ega ad audsýna lá-ungum eptir Guds ordi, og trúlega fylgja sinna kénnenda áminníngum, sem á því eru bygdar, einnig veita þeim alla vyrdíngu, elska þá og gódfúslega gjalda þad, sem þeir ega ad hafa til síns sæmilegs uppheldis.

Hebr. 13, 17. Hlýdid ydar Kénnifedrum og látid ad ordum þeirra, því þeir vaka yfir sálum ydar, svo sem þeir, er reikníng ega ad standa, svo þeir géti gjørt þad med gledi, en ecki med andvørpun, því þar hafid þér ecki gott af.

Gal. 6, 6. Sá, sem frædist í ordinu, hann býti hinum allskonar gædum, sem uppfrædir hann. 1 Thess. 5, 12. 13.

Merk: Foreldra og barna, húsbænda og hjúa, einnig Yfirvalds og undirgéfinna Skylda hvers vid annad innbyrdis, er í stuttu máli framsett í fjórda Bodordi Frædanna og í Húss-tøblunni, hvar líka

talad er um skyldu kénnenda og tilheyrenda. Í siøtta Boðordinu og í Hússtøblunni talast greinilega um skylduna í hjónabandi.

# Sjøundi Kapituli.
## Um þau medol, sem styrkja trúna og efla gudhræðsluna.

### I. Guds Ord.

§. 1. Gud hefir látid kénna oss með sínu ordi um allt sitt ráð og sinn vilja oss til frelsunar og betrunar; en þetta hans ord er ad finna bædi í Gamla- og Nýa-Testamentunum.

Hebr. 1, 1. Eptir ad Gud forðum optsinnis og uppá margann máta hafdi látid Spámennina tala til Forfedranna, þá hefir hann á þessum sídustu tímum látid Soninn tala til vor.

Jóh. 17, 8. Jesús sagdi í bæninni til síns himneska Fødurs: Þau ord, er þú gafst mér, þau gaf eg mínum Lærisveinum, þeir hafa þau og medtekid og þeckja sannarlega ad eg er af

þér útgenginn og þeir trúa því, að þú hefir útsendt mig.

Merk: a) Jesús hafði lofað sínum Lærisveinum, að senda þeim heilagann Anda, sem skyldi fræða þá um alla hluti og minna þá á allt það, sem hann hafði kennt þeim, Jóh. 14, 26. Þetta skeði líka á fyrsta Hvítasunnu-degi eptir hans himnaför þegar þeir allir, uppfylltir af heilögum Anda, tóku til að tala útlend tungumál, eptir því, sem Andinn inngaf þeim. Post. G. b. 2, 4.

b) Vér þurfum ecki að nýu uppfræðast um Guðs ráð og vilja með neinslags nýrri opinberun, því það Guðs orð, sem vér höfum, inniheldur allt hvað vér í því tilliti viðþurfum. Post. Gb. 20, 20. 21.

c) Þótt einhverr nú segði: að hann hefði ödlast nockra nýa guddómlega opinberun, ættum vér samt engannveginn að trúa honum, þared Guð hefir hvergi lofað að senda nýa Spámenn til mannkynsins upplýsingar. Gal. 1, 8. 9.

§. 2. Það er vor skylda að rannsaka kostgæfilega Guðs orð, til að læra þar af, hvað vér egum að varast og hvers vér egum að gæta, því annars mun Guð krefja oss til reikningsskapar fyrir

vera vankunnáttu og þar af fljótandi boðorða brot.

Ps. 119, 9—11. Davíð spyr: Hvernig getur æskumaðurinn gengið sinn veg óstraffanlega? en hann svarar sér sjálfur: með því að breyta eptir þínum orðum, Drottinn! —Eg geymdi þitt orð í mínu hjarta, svo eg syndgaði ecki á móti þér.

Merk: Þegar vér höfum tómstundir frá vinnu vorri, væri gott vér læsum daglega nockra stund í Ritníngunni. En á Sunnudögum og öðrum Helgum, finnur sú kristina manneskja, sem elskar Guðs orð, hæglega tækifæri til að lesa það, er það og ætíð nytsamlegra að byggja trú sína á egin ransókn — eins og þeir i Berróha forðum gjörðu. Post. Gb. 17, 11. — enn að láta sér einúngis nægja Kénnendanna sögusögn.

§. 3. *a*) Í Guðs orði koma fram mörg dæmi uppá dygðir og lesti, sem vér egum að taka oss til eptirþánka, þar þau eru eptir Guðs vilja uppskrifuð oss til eptirdæmis og viðvörunar.

Jak. 5, 10. Takið Spámennina, sem til yðar hafa talað í Drottins stað, til epirdæmis uppá að líða íllt og að vera þolinnmóðir. Hebr. 6, 12. 1 Cor. 4, 16.

2. Pét. 2, 6. Drottinn hefir borgirnar Sódóma og Gommorra fordæmt, umturnadi þeim, brenndi þær til øsku og setti til dæmis fyri þá, sem eptirá mundu lifa ógudlega.

*b*) Einkanlega egum vér ad gefa gætur ad Jesú Krists vors Lausnara heilaga líferni og ætíd hafa hans dæmi fyrir augunum ad breyta eptir.

Matth. 11, 29. Jesús sagdi: Lærid-af mér, því eg er hógvær og af hjarta lítillátur.

1 Pét. 2, 21. Kristur hefir einnig lidid fyrir ydur og ydur eptirdæmi eptirlátid, ad þér skyldud feta í hans fótspor.

Merk: Jesús Kristur gétur ecki verid oss til eptirdæmis ad því leiti, sem hann er Guds Sonur, kominn í heiminn til ad endurleysa syndarana og med kraptaverkum stadfesta, ad hann væri af Gudi sendur, líka og gaf sig sjálfur í daudann til fridþægingar offurs fyrir allrar veraldarinnar syndir; en vér egum kappkosta ad líkjast honum í øllum þeim dygdum, sem eru samqvæmar vorum ástandi og ecki yfirgánga mannlega krapta.

§. 4. *a*) Ad hafa Guds ord kostgæfilega um hønd, heyra þad med andakt og viljuglega læra, er hid rétta medal, med hverju sannkristinn madr

ur gétur farid æ meir og meir dagvaxandi og ordid stadfastur í dygd og gudhrædslu, med samverkandi heilags Anda nád.

2 Tím. 3, 16. 17. Öll Ritníngin er innblásin af Gudi og nytsamleg til lærdóms, til sannfæríngar, til leidréttíngar, til uppfrædíngar í réttlætinu, svo ad Guds madur sé algjörr og til alls góds verks hæfilegur.

*b*) Vor skynsemi fær hvad af hverju meiri og meiri þeckíngu af Guds ordi til andlegrar og ávaxtarsamrar upplýsíngar.

2 Tím. 3, 15. Þú kannt heilaga Ritníngu, sem gétur uppfrædt þig til sáluhjálpar med trúar lærdóminum um Jesúm Krist. Jóh. 5, 39. Ps. 119, 104. 105.

*c*) Vor vilji á kregtuglega ad hnegjast af þeim dýrmætu og mørgu á minníngum og advørunum, sem finnast í Guds ordi, til ad fordast illt, en stunda eptir því, sem gott er, líka upperfast til ad gjøra med allri ástundun þad, sem oss byrjar.

Lúk. 8, 15. Jesús sagdi: Þeir, sem ordid heyra og geyma þad í gódu og sidsömu hjarta, færa ávöxt med stødugljndi. 8, 31. 32.

*d*) Vér gétum, hvernig sem ástadt er fyrir oss, fundid huggun og rósemi af Guds ordi, sem inniheldur gødskurikustu loford um Guds nád og blessun Krists vegna.

Jóh. 17, 13. Jesús sagdi í bæninni til síns himneska Fødurs: Þetta tala eg í heiminum, svo ad mínir Lærisveinar hafi af mér fullann føgnud med sjálfum sér. Ps. 19, 9. 119, 24, 92.

Merk: Um réttilega brúkun Guds ords, er í stuttu máli talad í fyrstu Bæninni í Frædunum.

---

## II. Árvekni og Bæn.

§. 1. Vér egum gáumgæfilega vaka yfir hugrenníngum vorum og girndum, þar vort edli er breiskt, en freistíngarnar eru margar, svo engin heimugleg lystíng til ílls géti ad óvørum fengid yfirhønd hjá oss; líka egum vér ydduglega og náqvæmlega halda reikníng vid sjálfa oss um vorn lifnad og framferdi.

Matth. 26, 41. Jesús sagdi: Vakid og bidjid, svo þér fallid ecki í freistni, andinn er ad sønnu reidubúinn, en holdid er veikt.

2 Cor. 13, 5. Ransakid ydur sjálfa hvert þér erud sanntrúadir! reynid ydur sjálfa!

§. 2. a) Gud vill, ad vér skulum ydugléga bidja og er þad sjálfum oss til gagns, því ecki þurfum vér ad minna hann á neitt med vorri bæn, þared hann veit fyrifram bædi hvers vér vidþurfum og líka hvernig best verdi rádin bót á því.

Lúk. 18, 1. Jesús sagdi: Þér egid jafnan ad bidja og ecki þreytast. Matth. 7, 7. 1 Thess. 5, 17.

b) Bænin á ad vera oss medal bædi til ad styrkja vora elsku og traust á Gudi og til ad snúa vorum huga frá hégómaveraldarinnar; bænin géfur oss undir eins krapta til ad standa á móti freistíngum og til ad bera vorar þjáníngar med þolinmædi.

Phil. 4, 6. 7. Verid ecki hugsjúkir, heldur látid í øllum hlutum ydar bænir med þacklæti koma fyrir Gud í beidni og ákalli, þá mun fridur Guds, sem meiri er enn nockurr kann ad þenkja, vegna Jesú Krists, vernda ydar hjørtu og hugrenníngar.

Merk: Gud hefir ecki tiltekid hvad opt hverr einn kristinn á ad bidja, en ef hann elskar Gud einlæglega, verdur þad

ætíd hans innilegasta gledi, ad útausa sínu hjarta fyri Gudi med vonarfullri bæn, hvenær og hvar helzt, sem honum gefst færi á. Bædi qvøld og morgna høfum vér tíma og tækifæri til þess, líka optar um daginn midt í vinnu vorri.

§. 3. *a*) Vér megum bidja Gud um allt þad góda, sem hann hefir í sínu ordi lofad ad géfa oss, og sem er bædi sálu og líkama naudsynlegt; en af jardneskum hlutum egum vér sérílagi ad bidja hann um góda heilsu og daglegt braud, heidur í voru standi, frid vid vorn náúnga og blessun í vorri löglegri stétt.

Ordsqv. b. 30, 8. Agúr bad: Géf mér hverki fátækt né audæfi, en láttu mig hafa mitt afskamtad uppheldi.

Matth. 7, 7. Jesús sagdi: Bidjid og mun ydur géfast; leitid, svo munud þér finna; knýid á, og mun fyrir ydur upplokid verda.

*b*) Sérílagi egum vér ad bidja Gud um þau andlegu gædi, sem tilheyra vorri sáluhjálp, þad er: um fyrigéfníngu syndanna, styrk í trúnni og voninni, vit og krapta til ad breyta eptir hans vilja, megn ad standa á móti øllum syndsamlegum tilteygíngum, um góda samvitsku og sáluhjálplega endalykt.

Lúk. 11, 13. Jesús sagdi: Ef þér, sem vondir erud, kunnid ad géfa börnum ydar gódar gafur, hversu miklu fremur mun Fadirinn á Himnum géfa þeim heilagann Anda, sem hann þar um bidja? Cól. 1, 9—11.

Merk: a) Þegar Jesú Lærisveinar beiddu hann ad kénna sér ad bidja, sagdi hann: Þegar þér bidjid, þá segid:

Fadir vor! þú, sem ert á himnum! helgist þitt nafn; tilkomi þitt ríki; verdi þinn vilji, svo á jördu, sem á himni; géf oss í dag vort daglegt braud; og fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum skuldunautum; og eigi leid þú oss í freistni; heldur frelsa oss frá íllu. Þvíad þitt er ríkid, máttúrinn og dýrdin ad eilífu, Amen!

b) Drottinnleg bæn, Fadir vor, inniheldur í stuttu máli allt þad, sem hverr kristinn madur ætíd á ad bidja um og afbidja, bædi í tilliti til sinnar andlegu og líkamlegu velferdar. Þessi bæn kann þannig í stuttu máli ad útskýrast:

Fadir vor! þú, sem ert á himnum! þad er: þú, allrahæsti, eilífi og almáttugi veraldarinnar Skapari og Herra, sem elskar þínar mannsképnur lángtum heitar enn besta fedur á jördunni géta elskad sín börn.

Helgist þitt nafn; það er: kénn þú oss að audsýna í verkunum, að vér vidurkénnum þig eins fullkominn og ákollnuar-verdugann eins og þú í sannleika ert.

Tilkomi þitt ríki; það er: lát þíns Sonar Jesú Krists nádugu stjórnun, syndugu mannkyni til upplýsíngar og frelsis, meir og meir útbreidast og koma til góds á jördunni.

Verdi þinn vilji, svo á jördu, sem á himni; það er: géf oss náð, að vér sýnum hér á jördunni, að vér séum reidubúnir og oss lángi til að hlýða þér í öllum hlutum, eins og þínir þénarar hlýða þér á himnum.

Géf oss í dag vort daglegt braud; það er: géf oss svo mikid af tímanlegum gædum til lísins naudþurftar dag hvern, eins og þu sier, að oss er gagnlegast til vorrar andlegu og eilífu velferdar.

Fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum skuldunautum; það er: straffa oss ecki eptir makleigleikum, heldur fyrirgéf oss, vegna þíns Sonar, vor mörgu misbrot, eins og vér viljum gjarnsamlega fyrigéfa þeim, sem oss á móti brjóta.

Og leid oss ecki í freistni; það er: lát oss aldrei yfirbugast af þeim freistíngum, sem að oss koma, heldur hjálpa oss til að strida á móti þeim.

Heldur frelsa oss frá illu; það er: vardveit oss frá öllu því, sem gétur ordid oss að skada á sálu edur líkama.

Þvíad þitt er ríkid, mátturinn og dýrdin ad eilífu; þad er: þú einn rædur fyrir allri vorri velferd, og ert máttugur til ad efla hana, því skal líka lof og heidur fyrir allt þad góda, sem vér hljótum, tilheyra þér einum.

Amen! þad er: vissulega mun þad ské, sem vér bidjum þig um og þú sjer ad oss er þénanlegt.

c) Ef vér eigum ad bidja med bæninni: Fadir vor! oss til gagns, þá verdum vér med stödugum eptirþánka gæta ad meiningunni í ordunum; og lesa þau med hjartanlegri andakt. Þad er hneixlanleg misbrúkan ad lesa þessa bæn án umþenkíngar og fyri siddasakir. Nær væri ad lesa hana sjaldnar, svo andaktin betur gæti viðhaldist. Matth. 6, 7. 8.

§. 4. Þegar vér bidjum Gud um tímanleg gædi, eigum vér ad fela hans þægilegum vilja á vald, ad hvad miklu leiti hann vilji bænheyra oss, þar þad máské gétur verid sjálfum oss edur ödrum til gagns, ad vér ödlumst ecki þad, sem vér bidjum um, edur vér kynnum vanbrúka þad, sjálfum oss eda ödrum til skada.

Róm. 8, 26. Vér höfum ecki vit á, hvers vér eigum ad bidja. Jak. 1, 2. 3.

Jak. 4, 3. Þér bidjid og ödlist ecki, af því þér bidjid illa, sem er til þess, ad þér sóid því í ydar fýlíst.

Merk: Þegar hinn veiki, sem bidur um heilbrigdi, edur hinn fátæki, sem bidur um ad sér vegni betur og fleiri þesshâttar, ecki bænheyrast, mega þeir þar fyrir ecki þenkja, ad bænin sé gagnlaus. Þeir ega miklu heldur vera fullvissir um, ad Gud, eptir hans speki, sier þeim þénanlegra ad þeir fái ecki þad þeir umbidja, ega þeir því enau ad sídur halda áfram med bænina til Guds, svo ad þeir venjist því meir til ad hlýda honum og gésa sig undir hans vilja.

§. 5 Vér egum ad **bidja** fyrir vorum **náúnga** med semu alverugéfni og sama hjartalagi eins og fyrir sjálfum oss, til merkis um, ad vér elskum hann og einlæglega samgledjumst af hans velgengni og mun Gud ecki láta vorn góda tilgáng verda ólaunadann.

1 Tím. 2, 1—3. Fyrst af ollu er, ad eg áminni: ad gjørast skuli afbeidni, bænir, fyrirbænir og þackargjørdir fyrir ollum mønnum, fyrir Kongúnginum og ollu Yfirvaldi, svo vér mættum hafa spakt og rósamlegt líferni med allri gudrækni og sidsemi, því þad er gott og líka Gudi þócknanlegt. Jak. 5, 16.

§. 6. Ef vér egum ad géta **bedid** med þeim hætti, sem **Gudi þóknast**, megum vér ecki láta vorar **hugrenníngar**

hvarfla híngad og þángad, heldur snúa þeim til Guds einúngis og med audmýkt frambera vorar naudsynjar fyrir hann, med stødugu trausti á Jesú Krists forþénustu og fyrirbón, án þess ad reida oss á vorn eginn verdugleika; þaradauki egum vér ad útrýma úr hjarta voru øllu hatri til náúngans.

Jóh. 17, 20. Jesús sagdi í sinni bæn til síns himneska Fødurs: Eg bid ecki einúngis fyrir þessum — mínum Lærisveinum — heldur einnig fyrir þeim, sem munu trúa á mig fyrir þeirra ord. Róm. 5, 1. 2.

Mark. 11, 25. Jesús sagdi: Nær þér standid og bidjist fyrir, þá fyrigéfid, ef þér hafid søk móti nockrum, svo ad ydar Fadir, sem er á himnum, fyrigéfi ydur ydar brot.

Merk: a) Sá kristinn, sem er vel uppfræddur, bidur helzt med sínum egin ordum, sem ecki munu skorta hann, þegar hann hugsar alvarlega eptir því, sem hann ætlar ad bidja um, og þá hjártad kémst vid. En ef vér viljum brúka þær bænir, sem adrir hafa gjørt, egum vér ad velja þær, sem eiga vid vort ástand og innihalda þad, sem vér þá sérílagi þurfum ad bidja um.

b) Formálinn fyrir framan Drottinlega Bæn í Frædunum, talar um þad trúnadar-

traust, sem vér egum ad hafa til Guds, þá vér bidjum. Í fjórdu Bæninni er talad um tímanlegu velgjørníngana og í fimmtu Bæninni um þá andlegu, sem vér egum helzt ad bidja um. Í sjøndu Bæninni er líka gétid um hid ílla, sem vér egum einkum ad afbidja.

## *III.* Skírnar Sakramentid.

§. 1. Skírnin er þad heilagt verk, sem Kristur hefir bodid ad brúka vid þá, sem ætla ad játast undir hans lærdóm, og má annadhvert dýfa þeim í vatn edur ausa því yfir þá, í nafni Födursins, Sonarins og þess heilaga Anda.

Matth. 28, 18. 20. Jesús sagdi: Allt vald er mér géfid á himni og á jørdu. — Fyrir því farid og gjørid allar þjódir ad mínum Lærisveinum og skírid þær til nafns Födursins, Sonarins og þess heilaga Anda og kénnid þeim ad halda allt, sem eg baud ydur og sjáid! eg er med ydur allt til veraldar enda.

Merk: Í heitari løndunum má, án heilsuspillirs, dýfa þeim nidur í vatn, sem skírast ega, en hér í þessum kaldari løndum verdur, heilsunnar vegna, einúngis ad yfir-

ausa þá vatni, eins og brúkad var í hinni fyrstu kristni, þegar einhverr var skírdur á finni sóttarsæng.

§. 2. a) Med Skírninni verdur madurinn limur kristilegrar kirkju, til ad verda med heilags Anda samverkandi nád hluttakandi í þeim ypparlegu velgjörníngum, sem Kristur hefir oss útvegad.

Gal. 3, 26. 27. Þér erud allir Guds børn af trúnni á Jesúm Krist, því svo margir af ydur, sem erud skírdir til ad trúa á Krist, þér hafid íklædst Kristó.

Tít. 3, 5. Eptir sinni miskunsemi hefir Gud oss hólpna gjørt med endurgétníngarlauginni og endurnýúngunni, sem skédur af heilögum Anda.

b) Gud veitir oss í Skírninni adgáng til syndanna fyrigéfníngar fyrir Krists sakir, og gjørir oss svo sem sín elskuleg børn, hluttakandi í sinni fødurlegri elsku, opnar einnig veg til gledi og farsældar í tilkomanda eilífu lífi.

Mark. 16, 16. Hverr, sem trúir og verdur skírdur, sá mun hólpinn verda, en hverr, sem ekki trúir, sá mun fordæmast.

§. 3. Med ad skírast í nafni Fødursins, Sonarins og þess heilaga

Anda, verdum vér skuldbundnir til ad trúa á Fødur, Son og heilagann Anda, sem þann einasta sanna Gud, er alleinn rædur fyrir vorri tímanlegri og eilífri endurlausn og velferd, svo ad vér skulum dýrka hann einann og treysta honum einum, líka heidra og elska hann og hlýda honum af ellu hjarta; en hér af fylgir þá einnig, ad vér skuldbindum oss til ad strída móti ellum vondum girndum, og taka oss vara fyrir ad brjóta hans bodord vísvitandi, en lifa eptir Jésú Krists lærdómi í sønnum Guds ótta.

1 Pét. 3, 21. Skírnin er ecki burttekt saurinda af líkamanum, heldur sáttmáli gódrar samvitsku vid Gud.

Róm. 6, 4. Svo erum vér þá med Kristí greftradir í skírninni til daudans, ad líka sem Kristur er uppvakinn frá daudum fyri dýrd Fødursins, svo egum vér ad gánga í nýu líferni.

§. 4. Kristur vill ad allir menn verdi í Skírninni limir sinnar kristilegu kirkju, þar þeir eru endurkeyptir med

hans dauda, því ega líka smá-börnin eptir hans vilja ad skírast.

Mark. 10, 14. Jesús sagdi: Leyfid smá-börnum til mín ad koma og hindrid þau ecki þar frá, þared Guds ríki heyrir þvílíkum til. Matth. 28, 19.

**Merk:** Þau börn, sem deya ádur enn þau hljóta skírn, koma samt í Guds ríki, því Kristur hefir endurleyst þau, og þeim verdur ecki tilreiknud forsómun á skírninni. En hafi foreldrar eda vandamenn af ásettu haldid barninu frá skírninni, þá verdur þad þeirra ábyrgdarhluti, vegna þess þeir þar med syndu, ad þeir vyrdtu lítils Krists bodord.

§. 5. Í Konfirmatíóninni egum vér sjálfir ad ítreka og opinberlega endurnýa þad heilaga loford, er adrir gjördu fyrir vora hönd, þegar vér hlutum skírn, sem er: ad vér viljum afneita öllum ógudlegleika, trúa á Gud Födur, Son og heilagann Anda, einnig audsýna vora trú med gódverkunum. Til þessa lofords egum vér ætíd alla vora lífstíd ad muna, og láta þad sífeldlega minna oss á þá trygd og hollustu, sem vér

erum Gudi skyldugir, svo vor trú og ráðvendni ecki tapist af holdlegu gjálífi.

Opinb. b. 2, 10. Jesús sagði: Vertu trúr allt til dauðans, svo skal eg géfa þér lífsins kórónu.

Eph. 5, 25—27. Kristur elskaði söfnuðinn og gaf sig sjálfann út fyrir hann, til að helga hann, þegar hann með orðinu hreinsaði hann í vatns-baðinu, svo að hann gæti búið til handa, sjálfum sér dýrðlegann söfnuð, sem hefði engann blett né hruckú eður neitt þesshattar, heldur sé heilagur og óstraffanlegur.

Merk: Svo opt, sem vér endurminnumst Skírnarinnar, egum vér að uppörfast til nýrrar árvekni og ástundunar í að laga vorn lifnað eptir Krists lærdómi. Þess vegna, þó Skírnin sjálf egi ecki að ítrekast, er hún samt sífeldt áväxtarsamt meðal handa oss, til að efla vora dygð og guðhræðslu.

Um Skírnina er talaði í fjórða parti Fræðanna.

## IV. Qvöldmáltídar Sakramentid.

§. 1. Sú heilaga Qveldmáltíd er þad heilagt verk, er Jesús Kristur innsetti, med hverju kristnir menn ega ad eta braud og dreck a vín og þar med verda hluttakandi í Jesú Krists líkama og blódi, sem offrad var til forlíkunar fyri þá og vegna þeirra synda.

Matth. 26, 26—28. Mark. 14, 22—24. Lúk. 22, 19. 20. 1 Cor. 11, 23—26. Vor Herra Jesús Kristur, á þeirri nóttu, sem hann svikinn var, tók hann braudid, gjørdi þackir, braut þad og gaf sínum Lærisveinum og sagdi: takid og etid, þad er minn líkami, sem fyrir ydur verdur gefinn; gjørid þad í mína minníngu. — Sømuleidis eptir qvøldmáltídina, tók hann kaleikinn, gjørdi þackir, gaf þeim hann og sagdi: dreckid allir hér af, þad er kaleikur ens Nýa Testamentis í mínu blódi, sem fyrir ydur úthellist til fyrirgéfníngar syndanna; gjørid þetta svo opt, sem þér þad dreckid, í mína minníngu.

§. 2. a) Med innsetníngu þeirrar heiløgu qvøldmáltídar hafdi Jesús þann

tilgáng ad styrkja kristna menn í trúnni og upperfa þá til kostgæfilegrar ástundunar í kristilegu líferni.

Lúk. 20, 19. Jesús sagdi: Gjörid þad í mína minníngu.

b) Þegar vér medtökum Qvøldmálstídar Sakramentid, egum vér ad minnast Jesú Krists fridþægjandi dauda, oss til huggunar og fullvissu um, ad allar vorar syndir séu oss, hans vegna, fyrirgéfnar, ef vér einúngis tileinkum oss hans forþénustu med sannri ydrun og lifandi trú.

Lúk. 22, 19. 20. Jesús sagdi: Þetta er minn líkami, sem fyrir ydur verdur géfinn — Þessi kaleikur er þad Nýa Testamenti í minu blódi, sem fyrir ydur úthellist.

c) Vér egum ad láta þá heiløgu Qvøldmáltíd upperfa oss til, ad vér med innilegasta þacklæti metum mikils þad, ad Jesús Kristur leid þúngar qvalir og fórnfærdi sig sjálfan í vorn stad, og med því ad neyta opinberlega þessarar máltídar, egum vér honum til vegsemdar audsýna, ad vér viduerkénnum hann sé vor Frelsari og sáluhjálpari.

1 Cor. 11, 26. Svo opt, sem þér etid af þessu braudi og dreckid af þessum kaleik, skulud þér kunngjøra dauda Drottins þángad til hann kémur.

*d)* Í því vér medtøkum **braudid** og **vínid**, komumst vér í náqvæmustu **sameiníngu** med Jesú Kristi vorum Frelsara, sem gjørir oss hlut-takandi í sínum allraheilagasta **líkama** og **blódi**, og þar med innsiglar, ad vér séum medteknir til þess nýa nárar sáttmála, hvern hann, svo sem vor Medalgángari, hefir samid millum Guds og vor.

1 Cor 10, 16. Sá blessadi kaleikur, hvern vér blessum, er hann ecki hluttekníng í Krists líkama? Þad braud, sem vér brjótum, er þad ecki hluttekníng í Krists líkama?

Hebr. 8, 6. Kristur hefir ødlast svo miklu ædra embætti, sem hann er Medalgaungumadur betri sáttmála, hverr einnig stendur á betri fyrirheitum.

*e)* Þegar vér minnumst þeirrar **óransakanlegu** Jesú Krists **elsku**, sem í **Qvøldmáltídinni** verdur oss fyri sjónir sett, á **heitasta elska** aptur á móti

uppqveikjast í vorum hjörtum; þad á líka ad knýa oss til ad elska hverr annann innbyrdis, eins og þá brædur, hverja Krístur hefir allasaman endurleyst.

Jóh. 13, 35. Par af skulu allir þeckja, ad þér erud mínir Lærisveinar, ef þér elskid hverr annann.

1 Cor. 10, 17. Pad er eitt braud og vér margir erum einn líkami; því vér erum allir hlut-takandi í því eina braudi.

§. 3. Pad er naudsynlegt ad vér prófum sjálfa oss, hvert vér gétum, eins og verdugir géstir, gengid til Guds bords; því þeir einir hafa gagn af Sakramentinu, sem medtaka þad verduglega, en hinir óverdugu ávinna sér þarámóti Guds straungu reidi.

1 Cor. 11, 27—29. Hverr, sem etur af þessu braudi eda dreckur kaleik Drottins óverdugur, sá misbrýtur móti Drottins líkama og blódi; en hverr einn prófi sig sjálfann og eti svo af braudinu og drecki af kaleiknum.

§. 4. Pegar vér viljum réttilega prófa sjálfa oss, þá egum vér:

1) Ad ransaka vort hjartalag í tilliti til Krists og hans fridþægíngar,

svo vér gétum vitad, hvert oss, svo sem ydr-andi manneskjum, sýnist mikils umvarda ad finna náð hjá Gudi einum, vegna Jesú Krists og med trúnni á hann.

2) Egum vér ad ransaka sjálfa oss, hvert þad sé vor einlægur ásetníngur, hér eptir med alverugéfni ad strída á móti ollum syndugum tilloekunum og af alúd vilja fylgja Jesú lærdómi, svo oss fari meir og meir fram í rádvendni og sonnum Guds ótta.

Sérhverr sá gengur óverduglega til Guds bords, sem eptir þad hann þannig hefir prófad sig nágvæmlega, finnur ecki hjá sér þad hugarfar, ad hann vilji leita nádar hjá Gudi med trúnni á Krist, hafa einlægann ásetníng ad betra sig og láta sér fara fram í dygd og Guds ótta.

1 Cor. 2, 2. Eg tók fyri mig ad fara ecki med neinn annann lærdóm, þegar eg var hjá ydur, enn um Krist og hann krossfestann.

2 Cor. 5, 14. 15. Krists kjærleiki þvíngar oss, med því vér álýktum svo, ad ef einn hefir dáid fyrir alla, þá sé svo gott, sem þeir séu allir daudir; nú hefir hann fyrir alla dáid, svo ad þeir, sem lifa, skulu hér eptir

ecki lifa' sjálfum sér, heldur honum, sem fyri þá er dáinn og upp aptur risinn.

Merk: a) J Skriftastólnum verdum vér sérilagi áminntir og uppvorfadir til ad prófa náqvæmlega sjálfa oss, þegar Skriftafadirinn, med sínum andlegum umtølum og áminningum, minnir oss á skyldu vora vid Krist, og brýnir fyrir oss, ad vér megum stödlega kappkosta, ad vera dygdaudugir.

b) Þad stendur enganuvegin í Prestsins valdi ad fyrirgéfa syndirnar, því þad er Guds eins. En Prestrinn getur einúngis eptir Guds fyrirheitum, tilsagt oss og bodad: ad Gud hafi vissulega fyrirgéfid oss vorar syndir vegna Jesú Krists, ef vér ydrumst þeirra af hjarta og trúum á Krist. Þessvegna hafa ydrunarlausir eckért gagn af ad gánga til skrifta og altaris, heldur verdur þeirra ábyrgdarhluti því þýngri, þar þeir vanbrúka þetta til ad hylja med vondsku sína og ad gjøra gis ad Guds ordi.

Um þá heilögu Qvøldmáltíd er talad í fimmta Parti Frædanna.

# Attundi Kapituli.
## Um mannanna sídasta ástand.

§. 1. Þó dauda-stundin sé øllum óviss, þá er samt víst ad allir menn, sem á jørdunni lifa allt til veraldarinnar enda, ega einusinni ad deya, því allir þeir eru syndarar.

Róm. 5, 12. Syndin er af einum manni komin í heiminn og daudinn vegna syndarinnar, þannig hefir daudinn innþreyngt sér til allra manna, því þeir syndgudu allir.

Merk: a) Þad er mjøg hættulegt og heimskulegt, ad skjóta á frest sínum undirbúníngi til daudans, vegna þess sú manneskja kannské sé úng eda med gódri heilsu og kénni sér einkis meins, því daudinn kippir mørgum burtu á besta aldri. Svo veit heldur enginn, hvert daudinn muni koma hastarlega ad, eda med addraganda; enginn gétur heldur fyrisagt, hvert hann muni fá færi á ad undirbúa sig, þegar hann á hér vid ad skilja; því færstir eru svo øruggir á daudastundunni, ad þeir géti med alvørugéfni og stødugri umþenkingu hugsad um sín sáluhjálpar efni.

b) Á sóttarsænginni er tíminn ofnaumur til ad sá vidbjód á þeim løstum og hé-

góma elſku, ſem optrudu ſyndaranum, međ-
an hann var heill og óſiúkur, frá ad trúa á
Jeſúm Kriſt og elſka hann; hugarfarid um-
breytiſt ecki heldur af því, þó madurinn,
medan hálſkinn voſir yfir, fylliſt upp af
hrædſlu og qvída fyrir eymd og qvøl um
alla eilífd; því vér ſjáum allt of opt ad þeir,
ſem med miklu hugar ángri loſa bót og betr-
un á ſóttarſænginni, ſnúa ſtrax ſem þeir eru
ordnir heilbrigdir aptur, til ſíns fyrra ſynd-
ſamlega lifnadar, og ſýna þar med, ad þeirra
áugur-hafi ecki komid af einlægu hjarta, og
ad lyſtin til eins vonda er af laungum vana
ordin ſvo rík í ſálunni, ad hún gétur ecki ord-
id nidurkjæfd, nema med lángvarandi ſtrídi
og baráttu.

c) Þar fyrir er rádlegaſt ad búa ſig undir
daudann frá únga aldri, og ſtrída ſtrax á
móti øllum íllum girndum, undir eins og þær
taka til ad hreifa ſér, en kappkoſta þarámóti
ad komaſt med lifandi trú í ſameiníngu vid
Kriſt ſinn Endurlauſnara og fylgja hans ept-
irdæmi; því eins og ógudlegir ofherdaſt
meir og meir, ſvo þeir, med því ad halda á-
fram í ſyndunum, hafa enga dygdar og gud-
hrædſlu tilfinníngu, ſvo ſtyrkjaſt hinir gud-
hræddu daglega med ſamverkandi nád hei-
lags Anda, af ad ydka ſig ſiſeldlega í gud-
hrædſlu, og þannig undirbúa handa ſér frid og
fognud í ſamvitſkunni, ſem er ſú ſtærſta far-
ſæld í þeſſu lífi; en ógudlegir aptur á mót,
baka ſér med løſtum ſínum ſtærſtu qvøl og é-

rósemi. Þegar dauðinn aðkémur, eru þeir guðhræddu hughraustir og óqvíðnir, en hinir óguðlegu skélfast, og annaðhvert falla í örvæntíngu, ellegar með þánkaleysi sökkva niður í blinda forherðíngu.

§. 2. **Sálin**, sem er **ódauðleg**, fer strax, sem hún er skilin við líkamann, til síns samastaðar, annaðhvert í eilífa **gleði** eður eilífar **qvalir** eptir því, sem maðurinn hefir lifað í þessum heimi vel eður ílla.

Lúk. 23, 43. Jesús sagði við ydrandi ræníngjann á krossinum: Sannlega segi eg þér: í dag skaltú vera með mér í Paradís. 2 Cor. 5, 8.

Jóh. 5, 24. Jesús sagði: Hverr, sem heyrir mín orð og trúir þeim, sem mig sendi, sá hefir eilíft líf og hann kémur ecki til fyrirdæmíngarinnar, heldur hefir hann farið frá dauðanum til lífsins.

Lúk. 16, 22. 23. Jesús segir í eptirlíkíngunni: Sá fátæki dó og var borinn af Englum í faðm Abrahams. Hinn ríki dó líka og var greftraður, en sem hann upphóf sín augu í helvíti, var hann í qvölunum.

§. 3. **A efsta degi skal líkaminn uppvekjast** úr duptinu og samtengjast aptur **sálunni**, verður hann þá **óforgengilegur**.

Jóh. 5, 28. 29. Jesús sagdi: Sá tími mun koma, á hverjum allir þeir, sem í grøfunum eru, munu heyra Guds Sonar raust, og þá munu þeir, sem gott hafa gjørt, upprísa til sælu, en hinir til fyridæmíngar, sem íllt hafa adhafst.

Post. Gb. 24, 15. Postúlinn Páll sagdi: Eg hefi þá von til Guds, ad á eptir muni koma upprísa framlidinna bædi réttlátra og ráng-látra.

1 Cor. 15, 42. Líkama þeirra, sem deya, verdur rotnanlegum nidursád, en hann mun upp aptur rísa óforrotnanlegur; honum verd-ut audvirdilegum nidursád, en hann mun upprísa vegsamlegur; honum verdur nidur-sád veikum, en hann mun upp aptur rísa krøpt-ugur, náttúrlegum líkama verdur nidursád, en upp aptur mun rísa andlegur líkami.

§. 4 Þær manneskjur, sem verda lífs á jørdunni, þegar dómsdagur kémur, deya ad sønnu ecki, svo ad sál og líkami skiljist ad, en þær munu samt umbreytast, svo ad þeirra forrotnanlegi líkami verdur á augabragdi óforgengileg-ur; enginn madur veit hvenær þessi dag-ur muni koma.

1 Cor. 15, 51. 52. Sjá! eg segi ydur leyndardóm: vér munum ecki allir sofna, en allir munum vér umbreytast og þad skyndilega á einu augabragdi vid hinn sídasta lúdur hljóm; því lúdurinn mun gella, og hinir framlidnu munu upprísa óforgengilegir, en vér munum umbreytast.

§. 5. Kristur mun med dýrdlegum hætti opinberlega dæma alla menn eptir upprisuna og auglýsa fyrir öllum: ad gudhræddir eru verdugir til ad lifa í vegsemd og fögnudi eilíflega; en ógudlegir þarámóti munu verda því straffi undirkastadir, sem þeirra íllverk hafa tilunnid.

Post. Gb. 17, 31. Gud hefir tilsett vissann dag, á hverjum hann ætlar ad láta þann mann, sem hann hefir þar til sett, dæma rétt alla jardarinnar innbyggendur; þarum sannfærir Gud alla med því, ad hann uppvakti þann mann frá daudum.

2 Cor. 5, 10. Vér egum allir ad opinberast fyrir Krists dómstóli, svo ad hverr einn úr býtum beri eptir því, sem hann hefir adhafst í líkamans lifi, hvert sem þad hefir verid gott edur íllt.

2 Thess. 1, 7. 8. Þegar Drottinn Jesús opinberast af himni med sínum Engla her og

logaúda eldi, til ad hegna þeim, sem ecki vildu adhyllast Gud og straffa þá, er ecki vóru hlýdugir Evangelió vors Drottins Jesú Krists.

Merk: Sérhverr sála dæmist strax, eptir ad hún er farin út af líkamanum, og verdur heñi vísad añadhvert til eilífrar gledi edur eilífra qvala. Hebr. 9, 27. En á sídasta degi, þegar sálirnar eru ad nýu ordnar samtengdar líkömunum, mun Kristur, sem Konúngur og Herra, samansafna þeim, svo hans réttvísi dómur verdi þeim öllum undir eins kunnur, til vitnisburdar um hans stjórnun án manngreinar álits, og svo þeir megi sjálfir finna, ad þeim sé engiñ órétt ur gjörr. Matth. 25, 31—46. Róm. 2, 16.

§. 6. Eilíft líf er þad dýrdlega og sælufulla ástand, í hverju gudhræddir menn æfinlega lífa í gledileguſtu sambúd med Jesú Kristi, gódu Englunum og öllum heilögum, án þess ad áreitast lengur af nockurri synd edur sorg, en njóta ómumræ[?]ilegrar huggunar, fridar og fagnadar af ad skoda Guds dýrd, sem audsýnir sig í hans mörgu dásemdar verkum þar þeir einnig lofa og vegsama Gud hverr med ödrum og æfa sig í dygdinni og kjærleikanum eptir Guds vilja.

Matth. 25, 34. Jesús mun segja vid þá: Komid hingad þér, blessadir af mínum Födur,

eigniſt þad riki, ſem ydur er fyribúid frá veraldarinnar upphafi.

Jóh. 17, 24. Jeſús ſagdi í bæninni til ſíns himneſka Födurs: Eg vil ad þeir, ſem þú gafſt mér, ſkuli vera hjá mér, hvar ſem eg er, ſvo þeir ſjái mína dýrd, ſem þú gafſt mér.

Hebr. 12, 22. Þér komid til borgar Guds lifanda, til þeirrar himneſku Jerúſalem, og til margfjölda margra þúſund Engla.

Opinb. b. 21, 4. Gud mun þerra öll tár af þeirra augum og daudinn mun ecki lengur vera til, ecki harmur né qveinan, né heldur pína mun lengur til véra.

Róm. 2, 10. Heidur vegſemd og frid ſkal hverr ſá ödlaſt, ſem gott gjörir.

§. 7. Fyrirdæmingin, ſem annars kallaſt eilífur daudi, er þad qvalafullt og vonarlauſt áſtand, í hverju óguðlegir ſárlega qveljaſt af þeirra nagandi ſamvitſku; og hvar þeir, í hinna ógudleguſtu vonðu anda og íllra ſálna ſambúd, finna til hriggileguſtu verkana af ſínum fyrri íllgjördum, þared þeirra drottnandi lyſtir, hverjum þeir þá ecki géta fullnægt, undir eins auka þeim qvöl og pínu.

Matth. 25, 41. Jeſús mun ſegja til þeirra: Farid frá mér, þér bölvudu! í þann ei-

líka eld, sem fyrirbúinn er Djöflinum og hans árum.

Mark. 9, 48. Jesús sagdi: Þeirra ormur deyr ecki og þeirra eldur slocknar ecki.

Jóh. 3, 36. Hverr, sem ecki trúir Syninum, skal ecki sjá lífid, heldur varir Guds reidi yfir honum.

Róm. 2, 9. Hrellíngar og harmqvæli munu koma yfir allra þeirra manna sálir, sem illsku drýgja.

§. 8. Á sídasta degi mun vor heimurforgánga med ollum sínum gædum; en gudhræddir munu ætíd vera hjá Drottni, og med þessari von skulum vér hughreysta hverr annann.

2 Pét. 3, 10. Dagur Drottins mun koma, sem þjófur á nóttu, á hverjum himnarnir munu med miklum gný forganga, en høfudsképnurnar í eldi brádna og jørdin og þau verk, sem á henni eru, munu uppbrenna. 1 Thess. 4, 17. 18.

---

Gudi sé lof og dýrd ad eilífu, Amen!

Stutt

Agrip

af

# Hofud-Lærdómum

kristilegra Trúarbragda.

I.

Einn einasti sannur Gud er til, sem hefir skapad heiminn, vidheldur og stjórnar honum til gagns og gledi ollum sínum lifándi sképnum, en sérílagi þeim skynsemdar-fullu til velferdar.

2.

Þessi Gud hefir allrastærstu eginlegleika og er sá allra fullkomn-

asti í makt, speki, gæðsku, heilagleika og réttlæti.

3.

Heilög Ritning, sem inniheldur Guðs vilja og ráðstöfun, að svo miklu leiti, sem þau sérílagi eru manneskjunum viðkomandi, kénnir oss að dýrka Guð, sem Föðurinn, Soninn og þann heilaga Anda, er allir hafa eina veru og sömu guðdómlegu tign.

4.

Manneskjan var í upphafi, þegar Guð hafði skapað hana, saklaus og góð, en hún spillti sér sjálfri, með því að brjóta fríviljuglega á móti Guðs lögmáli; þar af varð hún syndug og óhæfileg til að taka á móti þeirri sælu, sem Guð hafði henni ætlað.

5.

Jesús Kristur, sem er eingétinn Sonur þess himneska Fødurs, vard madur, svo hann gæti endurleyst syndugt mannkyn frá þeirri eymd, sem þad hafdi med syndinni steypt sér í; hañ sýndi moñunum þar fyrir med sinni kénníngu, hvad Gud af siñi miskunarfullu elsku hefdi ályktad um þeirra frelsun, útvegadi þeim adgáng til hennar med sinni frívilljugu píun og dauda, og stadfesti líka med sinni upprisu og himnaför þá vissu, sem hann hafdi géfid þeim um eilíft líf. Nú stjórnar hann øllum heiminum ásamt Fødurnum med guddómlegri makt og veldi og ber sérílagi umhyggju fyrir sinna endurleystra eilífri sáluhjalp.

6.

Sá heilagi Andi leidir ofs med Kristis lærdómi til apturhvarfs frá syndunum og til trúarinnar á Krist, svo vorar syndir-verdi ofs fyrirgéfnar; hann hjálpar ofs einnig til betrunar og framfara í dygd og gudhrædslu, svo vér gétum ordid hluttakandi í þeirri sáluhjálp, sem Kristur hefir ofs útvegad.

7.

Vor trú á Jesúm Krist á ad sýna, hvert hún sé kroptug, med því ad vér lifum eptir vorri skyldu bædi vid Gud, vid sjálfa ofs og vid náúngann, eptir því, sem Gud og Kristur hafa skipad ofs í heilagri Ritníngu.

8.

Gudi erum vér skyldugir um, ad tilbidja, óttast og elska hann, hlýda honum og reida ofs á hann einann,

lofa hann, þacka honum og ákalla hann, einnig taka oss vara fyri øllu því, sem í nockurn máta stridir móti þeirri virdíngu, sem vér egum honum ad veita.

9.

Sjálfum oss erum vér skyldugir um, ad bera tilbærilega umhyggju bædi fyrir sálu vorri og líkama, sem og vorri tímanlegri velferd, en þó sérílagi gæta vor ad varast allt illt og syndsamlegt háttalag og vana, svo samvitskan hverki ofþýngist, né vér lídum tjón á vorri sönnu velferd; vér erum þarámót fullvissir um Guds náð og gétum ætíd med sonarlegu trúnadar-trausti leitad hælis hjá honum, ef vér kappkostum ad vera gódar og dygd-audugar manneskjur, eptir Jesú lærdómi og eptirdæmi.

10.

Náunganum erum vér skyldug-
ir um, ad elska hann eins og sjálfa
oss, vera því ætíd reidubúnir til
ad gjøra þad sama vid hann, sem
vér kjósa vildum ad hann, í líka til-
felli, gjørdi vid oss; en aldrei taka
oss nockud þad fyrir hendur, sem
í einhvern máta kynni skérda hans
tímanlega eda eilífa velferd.

11.

Vér egum ad hafa Guds ord
ýduglega um hond, þar þad er hid
besta medal til vorrar upplýsíngar
og helgunar, líka egum vér ýdug-
lega ad vegsama og ákalla Gud,
svo hugur vor þar med uppfyllist
af elsku til Guds og laungun eptir
ad gjøra hans vilja.

12.

Vér egum ad leggja allt kapp á

ad virda mikils og halda vorn Skírnar sáttmála, því med Skírnīñí hefir Kristur látid gjøra oss ad limum siñar kirkju og gèfid oss rètt til sinna dýrmætu velgjørnínga.

Í Qvøldmáltídar Sakramentinu gjørir Jesús Kristur oss hluttakandi í sínum líkama og blódi, til fullvissu um, ad vorar syndir séu oss fyrirgéfnar, ef oss af hjarta ángrar, ad vér høfum drýgt þær, og einsetjum oss ad láta oss fara fram med trúnni á hann trádvendni og í vorum kristinndómi; þar fyrir egum vér líka ad brúka þetta sakramenti med hjartanlegri andakt, eptir ad vér ádur høfum náqvæmlega og alvarlega prófad sjálfa oss.

13.

Gudhræddra sálir koma eptir daudañ til eilífs lífs og eilífrar sælu

í samfélag með góðum ondum, hjá Kristi sínum Endurlausnara; en þá ógudlegir deya, fara þeir í samfélag vondra anda og hreppa þar qvalir og ángist, sem er maklegt straff fyrir þeirra íllgjordir.

14.

Guds alvísa ráðstafan hefir tilsett vissann dag, á hverjum þeir daudu líkamir munu úr sínu dupti uppvekjast og samtengjast þeirra sálum, þegar Kristur mun láta þá alla mæta opinberlega fyri sínum Dómstóli, og þá forgengur sú verold, sem nú er.

# Listi

yfir Landsuppfrædíngar Félagsins Vísinda Stiptunar Forlags-bækur, sem eru til kaups bædi vid Prentverkid í Videy og hjá núveranda Stiptunarinnar Bóksala Kaupmanni **Gudmundi Péturssyni í Reykjavík**, fyrir vidsett verd í peníngum.

---

*Anonyms* Midvikudaga Føstu-prédikanir, einstakar, 38 rbsk. N. V., en til sambindíngar vid Stúrmshugv. 2ad B. 26 rbsk.

*Arngrimssonar* (*B.* Prests) Gardyrkju-frædi, 20 rbsk.

—— Barnagull eda Støfunar- og Lestrar-qver, 24 rbsk.

*Balles* (*N. E. Dr.* Biskups) Biblíu-Lestrar, 1ti Partur, 1 rbdl.

*Bastholms* (*Chr. Dr.*) Kristilegra Trúarbragda Høfud-Lærdómar, sídari Partur. 64 rbsk.

*Campes* Sida-lærdómur, 30 rbsk.

—— Sálar-frædi, 30 rbsk.

*Finnssonar* (*H. Dr.* Biskups) Qvøldvøkur, sídari P. innbundinn 1 rbdl.

*Gallettis* Kénnslu-bók í Sagna-frædi, 26 rbsk. innbundin 37 rbsk.

*Handbók* Presta, 1 rbdl., á Póstp. 8 rbm.

*Helgasonar* (*A.* Stiptprófasts) Helgidaga Prédikanir árid um kríng, 3 rbdli.

*Herslebs (S. B. Professors)* Stutt Ágrip af Biblíu Fráságum handa únglíngum, 40 rbſk.

*Lærdómsbók* í evangeliſk-kriſtilegum Trúarbrøgðum handa únglíngum, 24 ß. reidu ſilfurs; á ſkrifpappír 32 ß. reidu ſilfurs.

*Lögþíngisbókin* 1799, 29 rbſk. 1800, 22 rbſk.

*Messusaungs-* og Sálma-bók, 1 rbdal r. ſilfurs; á ſkrifpappír 1 rbd. 32 ß. r. S.

*Péturssonar (H. Preſts)* Paſsíu-ſálmar, 56 rbſk.

—— Andlegir Sálmar og Qvædi, 64 rbſk.

*Registur* yfir Skáldin í Meſſuſ. og Sálmab. 4 rbſk.

*Stafrofs*- og Fræda-qver, 16 rbſk.

*Stephensens (M. Dr. Jur.)* Eptirmæli 18du Aldar, 1 rbdl.

*Sturlusonar (Snorra)* Norvegs Konúnga Sögur, 1ta Hefti, 51 rbſk. — 2ad Hefti, 51 rbſk.

*Stúrms (Ch. Ch.)* Andlegu Hugvekjur, 1ta B: 9 rbmk. 2ad B. 8 rbmk. 3ja B. 5 rbmk.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| *Tidindi* 2ars Bindis | 1ta | Deild. | : | 42 rbſk. | |
| —— | — | — | 2ur | — 1 rbd. | : : |
| —— | 3ja | — | 1ta | — : | 42 rbſk. |
| —— | — | — | 2ur | — : | 38 rbſk. |

Viku-ſálmar og Bænir, 28 rbſk.

Lærdóms- og Sálma-bóka nýju upplagin á beſſa prent- og ſkrif-pappír ſeljaſt einúngis fyrir vidſett verd í ſilfri, en hinna líka fyrir gyldar kauphøndlunar vørur eptir þeirra almenna gángverdi á hverri tíd; en mót þeim $\frac{1}{5}$ dýrra.